# OECONOMIA CHRISTIANA

edur

# Huss-Tabla

sem serhverium í sínu stande þann retta christindóms veg fyrer sióner leider,

í lióðmæle samsett

af

þeim heidursverduga og hágáfada guds manne

Sira

## Joone Magnus syne

fordum sóknar-preste ad Laúfáse.



Selz óinnbunden 24 skildíngum.

Prentud ad Hrappsey,
í því nýa konúngl. privilegerada bókþryckerie 1774
af Eyrike Gudmunds syne Hoff.

# Goodfus Lesare!

Dygd og dygder heyra meñ opt nefndar, enn sialdan heyra menn skilmerkelega útmálad hvad dygdin se, máske af því, ad heimsspekíngar hafa mest um hana hondlad under þessu nafne; enn þad þyker sumum vande og jafnvel háske ad fylgia þeirra kenníngum; þarf þó aúngvann háska ad óttaz í þessu efne, því dygdin er rett kaullud lyst til ad giora guds vilia. Lyst merker her ei einasta epterlangan heldur og íþrótt edur vana, sem nefniz á latínu habitus. Hef-

ur ſá eingenn epterlangan til nockurs hlut-
ar, ſem ei hefur vilia til ad ydka hann:
og því er þad máltak, ad þad ſe hvørs
eins lyſt ſem hann leikur. Vilia guds þeck-
ia menn med tvennu móte, annadhvort af
nátturuñar lióſe edur openberíngarinnar.
Þad menn þeckia af nátúrunnar lióſe, þad
er nátturunnar logmál, enn ſína ſetnínga
hefur gud þar fyrer utan mannnunum kuñ-
giort; þarfyrer, hvør ſem ydkar ſig í því,
ad lifa epter náttúrunnar logmále, hann
giorer dygdina: og er her þá komen óbriál-
ud heimsſpekínganna útleggíng yfer hana.

Tilgangur guds í aullum ſínum bodord-
um er hanns dýrd og mannanna velferd.
Og ſo ſem ſá helſte tilgangur guds í aullu
er hanns dýrd, ſo er og mannanna til-
gangur í aullu þeirra eigen velferd, og á
miſ vid hana fara þeir aldrei, ſem ſtunda
dygdina. Dygdin er ſín eigen laún, og
hvør ſem hana ydkar, finnur þaraf ſlíkt
yndæle, ad jafnvel heidíngiar, ſem ei hafa
vitad af þeim fyrerheitum, ſem kriſtner
menn hafa, ydkudu þó dygdina.

Nát-

Náttúrunnar hlaúpe hefur gud so dásamlega skipad, ad hvør sá sem ydkar dygdina, þad er, stundar ad lifa epter náttúrunnar løgmále, hann hiñ same hefur gott af því; þar þvert á móte hefur hvor sá illt af því, sem ydkar ódygd og lostu þá, sem náttúrunnar løgmál bannar. So hefur sá hóffsame rólega gedsmune og góda heilbrigde, hinn óhóffsame órólega gedsmunne og optast bága heilsu, er þar og aull orsauk til, fyrer því ad eckert er so heilnæmt líkamanum, sem róleger gedsmuner, og eckert so óheilnæmt, sem þeir hiner saumu órólegér. Þetta fundu og sáu marger heidner menn, og þó þeir ei sannann gud þecktu, giørdu þeir þó óvitande guds vilia; og má því ei vœna þá þeim heidre, ad þeir hafe dygdina ydkad.

Setuínga sína hefur gud openberad mañunum bæde í gamla og nía testamentinu, og fylgdu þeim jafnan fyrerheit; í því gamla testamente áhrærdu þaú miøg so líkamlega farsæld; enn í því nía testamente voru þad meira andleg og eylíf gæde, sem þeim voru heiten, er giørdu guds vilia; þó voru

þar ei fráſkilen líkamleg gæde, því þad ſem gud hafde lofad í gamla teſtamentinu, tok hann ecke aptur í því nía, heldur lagde hin til med frekare mæling, ſerdeilis fyrer því, ad hiner fyrſtu kriſtnu gátu ei allra þeirra tímanlegu gæda noted, ſem dygdinne edur góðverkunum fylgia, vegna þeſſad þeir voru af vondum mannum hataðer og offókter: urdu þad því ad vera andleg og eylíf gæde, ſem þeir ſkyldu fyrergangaz. Því víſt er þad, ad eingenn giorer annars ſkipan hvorke guds ne manna, utan hann fyrer einhvoriu gangiz, eins ſá, ſem óttaz hegníng og álaugur, yengz fyrer því, ad fríaz frá álaugunum. Tilgangur guds í aullum hlutum er hans dýrd, og ſo ſem hann vill ſína dýrd, ſo vilia og þeir ſkaupudu andar ſína farſæld; enn þetta verdur ei adſkiled, því hvor ſá ſem ſtundar guds dýrd, hann ſtundar og ſína egen velferd.

Fyrer því nú ad þær orſaker, ſem knía mann til ad ydka dygdina, eru ei med einu móte; ſo fær dygdin þar af nockra adgreiníng. Sumer ydka dygdina vegna þeirra

nátturlegu

náttúrlegu gæda, sem hún af ser leider. Adrer og eigenlega kristner ydka hana vegna þess, ad gud hefur hana boded, enn aller af því, ad þeir elska siálfa sig. Því eingenn elskar siálfann sig meir enn sá, sem elskar gud af aullu hiarta, af allre sál, af aullum mætte og aullu hugskote. Sá sem mest elskar adra nærst gude, hann elskar mest siálfann sig. Og þesse siálfs elska er dygd. Hin ædsta trappa dygdarinnar er elskan til guds, hin aunnur er elskan til náúngans, enn hún hefur aptur margar trappur. Sú ædsta trappa í náúngans kærleika er elska til faudurlandsins, og hana kallar Montesqviou serklage dygd.

Faudurlands elsku heyra menn einatt nefnda; enn hvort þar er alltíd dygdin med meint, má stórum efa. Catilina, Cæsar, Cato, aller þesser og ótal adrer fegrudu sínar fyrertekter med faudurlands elsku nafne; enn þad var þó eingen dygd. Þeir ad saunnu elskudu sig siálfa; enn þeir elskudu ei adra eins og siálfa sig, uppskáru og þarfyrer slæma ávexte sinnar siálfselsku, af því þeir lifdu ei epter náttúrunnar logmále.

Marger kannske finniz þeir, sem ætla ad þad sëu ei utan vissar persónur, sem hafe hentugleika og tækesære til ad elska faudurlandid, enn þvi er ei so vared. Þar er eingenn sá, sem ei meige og eige ad elska faudurlandid, og þad geta aller og þad so mieg, ad vandasamt má verda ad dæma, hvør mest elskar. Ein egta-persóna, sem vel lifer, í sinne stett, elskar faudurlandid. Sá húsfader, sem vel uppelur sín baurn og hiú, elskar hvad mest sitt faudurland, og bónde sá, sem vel ræktar jaurd sína, giører þad ei sídur. Eingen er sú stett, sem ei gete elskad faudurlandid med því, ad giøra skyldu síns embættis. Sá aúmaste og aúdvirdelegaste getur í þessu keppz vid þann ædsta og ypparlegasta. Og medan faudurlandsins elska finnz ei hiá hvørre stett, er faudurlandsins velferd ei full-grundvollud. Og med því þettad er dygdin, þá er aúdsed, hve miked á heñe rídur.

Nú er þad víst og ómótmælanlegt, ad sú dygd er sterkust, sem byriar á gude

gude. Dygd sú, sem uppsprettur af elsk-
unne til guds, er sú ypparlegasta, stod-
ugasta og ávaxtarsamasta, því seger Páll
postule, ad gudhrædslan se til allra hluta
nýtsamleg, hafande fyrerheit þessa lífs
og hins epterkomande. Sá sem gengur
einasta epter náttúrunnar lióse, kann
opt og aúdveldlega ad villaz af dygd-
arinnar vege. Skilníngurinn kann ad
formyrkvaz, og tilhnegíngarnar kunna ad
verda ofsterkar, so ad madurinn ser ei
hvad haunum er fyrer bestu, og elskar
sig þá ei siálfann rettelega. Enn sá
sem gud elskar, hann stundar ad giøra
hanns vilia, og leitar þar í sinnar æd-
stu farsældar, því hann lítur mest á þaúg
eylífu og ókomnu laúnin; haunum er
ei hætt vid ad villaz af dygdarinnar vege,
því hann hefur þann, sem haunum vid-
heldur, h. anda, sem í haunum býr, sem
upplýser hanns skilníng og minner hann
á þad góda.

Nú eru, því verr! allt ofmarger,
sem ei leidaz af þessum guds anda, sem
ei líta á þaúg andlegu og eylífu laún-

 in,

in, og eru miøg tornæmer í því, þurfa þó dygdina ad ydka, skule þeir ei verda bæde ser og audrum til tións og skada, og þannveg voru flester áſigkomner, ad sýnaz má, í gamla Testamentinu. Enn hvada medal brúkade gud vid þessa? hañ brúkade fyrerheit um tímanlega farsæld. Því má ei brúka saumu adferd ennnú á þessum daugum vid þá, sem eru baurn í skilníngínum? sem þurfa miólk enn eí megnann mat? því má ei fara med þá eins og baurn, sem gangaz fyrer faugrum lofyrdum? nóg er til ad lofa af líkañlegre farsæld, og nóg íllt til ad hóta. Eingen er sú dygd, ad ei hafe sín náttúrleg og eigén verdlaún, og einginn sá lostur ad ei leide siálfkrafa íllt epter sig.

Æra og vanæra, heidur og óvirdíng eru þaúg aúdvelduſtu verdlaún dygda og ódygda, og því hafa nockrer spekíngar sett þær í stad siálfra dygdanna og lastanna í einne einvalds stiórnan. Og víst er þad betra, ad mennirner ydke dygdirnar fyrer tímanleg og

jafnvel fáfengeleg verdlaún, heldurenn ad þeir ydke þær ecke. Ærugirnd, metnadur og virdínga girne kunna ad hafa allgódar verkaner, þó þetta se fáfengelegt í sialfu ser. Munde þá ei leyfelegt ad brína þetta fyrer fólke? ei er hætt vid, ad þeir sem af elskunne til guds æfa dygdina, hætte þar fyrer ad elska gud. Guds elska er indælle enn so, ad menn sleppe henne, og take fánýtann hegóma í stadinn. Hinum munde og miklu fliótara ad nema þá edla dygdina, sem grundvallaz á guds elsku, ef þeir med einhvoriu móte læra ad æfa hana, heldur enn ef þeir lærdu þad ei.

Allt þetta syniz, sá gáfade og gudhrædde kennemann sál. Síra Jón Magnússon hafa fyrer aúgum haft í þeim qvedlíngum sínum, sem hann kallar **Huustaublu**: því þó hann þar mest brúke guds elsku og ótta fyrer tilkomande orsaker, til ad leida menn til dygdarinnar; þá gleymer hann þó ei heilagra og gódra manna dæmum, og er þad eins og hann þar med egge til metnadar, því

sá

sá sem breiter epter audrum, fyrer þvi hann vill annadhvert líkiaz þeim sem mest, edur ei vera audrum stóre, sýner þar í saklaúsann og lofsverdann metnad. Þesse sæle madur hefur ei halded þad heldur ósæmelegt því guds orde, sem hañ talade, edur ser óvirding, at geta þar smásmuglegra hluta, sem nú munu þykia ofaúdvirdeleger edur hneigslanleger, fyrst þeir heyraz lítt edur ecke openberlega kennder. Nátturlegar fylgiur lasta og dygda skírer hann einatt, og ladar menn med allt slag til ad ydka dygdina.

Þad sem mest er lofsverdt og miog addáanlegt hiá þessum góda manne, er, ad hann bríner mest fyrer maunnum þær so kaulludu borgarlegu dygder. Hañ hefur sed, ad fólk þurfte meira med undervísunar um innbyrdis vidskipte og hvers dags háttalag, heldur enn um trúarinnar haufutgreiner, sem flester eru allvel uppfrædder í, þó þeir seu um hitt mid-

ur fróder. Oskande være ad sem flester vildu feta í þessa góda manns fótspor í því, ad kenna almúganum, ad færa ser þaú fræde í nyt í daglegre umgengne, sem bæde læraz utan bókar og predikaz í saufnudunum.

Og med því þetta er nú so dægelega giort í þessare Huustaublu, sem fyrst er þryckt í Kaúpenhafn ad forlage sál. syßlumannsins Jóns Jóns sonar yfer Badla syßlu, þess manns, er ei var sídur nafnfrægur fyrer sína gudfræde, forstand og stiórnseme enn laga vitsku, enn hún (Huustablan) orden fágæt hiá almúga; þá er hún nú á ný prentud í því nía prentverke í Hrappsey, og med mikille athygle rett af þeim prentvillum, sem voru í hinu fyrra upplage.

Þesser qvedlíngar eru so yppar-
leger, ad serhvör sá, sem þá ydkar og
epter þeim gengur, hann má ótvílad
vænta ser gudhrædslunnar og dygdarinn-
ar verdlaúna, sem eru tímanleg og ey-
líf gæde, og hann sýner þad í verkinu,
ad hann se guds barn. Því sá sem ei
lifer vel í hiónabandinu; stiórnar vel
baurnum og hiúum; stundar ærlegt ervi-
de, þrifnad og sparseme; ræktar vel
jaurd sína, og stundar vel búskap sinn,
sínum samauldrum og epterkomurum enn
þó mest siálfum ser til góda og so framvegis,
hann elskar ei sinn bródur, og hvorsu
má hann þá gud elska?

Gud hiálpe þeim aullum, sem
ydka þessa qvedlínga, til ad færa þá ser
í nyt, og uppveke hiá þeim vilia og
epterlangan til ad stunda sína tímann-
lega

lega og eylífa velferd, so ad þeir, epter ad þeir hafa vered góder kóngsins undersátar og gagnleger Íslendíngar, kuñe ad verda verduger undersátar þess alvalda kóngs í audrum heime og útvalder dýrdlíngar á himnum.

---

Naudsn

# Naufn
## þeirra qvedlinga
sem þesse bæklingur inneheldur:



Hióna-

# Hioona-Speigell,

edur

Kvæde um frægd og sóma þeirrar heilaugu hiónabands stiettar, og hvornin þeir úngu og ógiftu skulu sig þar til búa, og þar inni gudrækiliga lifa.

## Fyrste Partur Kvædesins, um stiftan og upphaf hióna-bandsins.

Tiá þú madur og sæta, sóma þinn og lífsfognud; hvornin hag vorn bæta, hiúkrunarsamur villde gud, í aundverdu, þá egtaskap ried stifta, til frægdar vid þau fyrstu hión: hanns fyrersión, Adam Evu ried gifta.

A veralldar ofdu láde, var ei Adams líke neinn. Ad því gud vor gáde, gott

væri ei hann lifdi einn: látum oss (qvad liúfust prennlug) giora, manninum kiæra medhiálp þá, er má haunum hiá, til yndis una og vera.

Gud med hægre hende, hinn medan feste sætann dúr, bió til blómlegt kvende, af beine, og tók hanns sýdu úr; fagra júngfrú færde helgum sveine: Adam kienste á Evu bar, ad uppbygd var, hanns af hollde og beine.

Forspár qvad, fyrst, kvinna, komen væri af holldi manns; kiærust karlmanns inna, kallaz mætti hún til sanns; hier epter ad hvor mann skylldi og meiga, forláta sitt forelldra ból, enn fallda sól, egtabundna eiga.

Tvo þau, teingd med dádum, teliaz skylldu holldid eitt, og niótaz meiga í nádum: nákvæmd þeirri ei skal breitt; því, siálfur gud þad saman er búinn ad teingia, hefur Christur siálfur sagt, ad mannlig magt, má þad ecke reingia.

Villde víst fyrer framan, vera um sagdann rádahag; signadur gaf þau saman, þann siotta heimsins skopunar dag; til giftingar þeim gaf og siálfur talde, halld

og

og eigu á heimsins grund, í heiman=mund; í Eden vist þeim valde.

Hióna-vígslu helga, hafdi yfir þeim, og blessa ried: fólk guds skyllde fiolga, fylla og prída jardríkid. Eru þess vitne engla drottins skari. I Paradís er sú skickun sked, vid skilnings tred, þad glæsta guds alltari.

Er því eigi af maunnum, uppáfundin þesse stiett; helldur med heidre saumnum, af hærstum gudi fyrst innsett, og blessud strax í blómligum heilagleika; vill sú skick-un halldiz hrein, í hvorri grein, enn, svo ei meigi skeika.

Gud hinn hiarta-hreine, (so hiónabands hin illa synd, yrdi ad minna meine, og manneskiunnar fýsnin blind) ríkar skordur reist hefur í løgmále, vid óhreinleik, og saurugum sid, ad setiz grid, enn heidurenn hnecke bále.

Vert í bodordum þremur, blessadur gud med strángann rett, vid þá klæke kemur, sem klandra þessa helgu stett: gyrnd af-skipar gløggt í tíunda bode: í fiórda er óhlídne hneckt: en hórdóms sekt, í siotta er sagdur vode.

Tugt og alla æru, elskar gud, í helgun manns; med hiarta og hollde skiæru, heidraz á því nafned hanns, því hann er einn sá hreinferdugaste ande: enn hinum sem ecke er lán þad lent, ad lifa er hent, í heilaugu hiónabande.

Líknarlaust mun dæma, lifande drottenn saurlífid, þykir síst þad sæma, signudum gude, ad mannkynid, í lausúng hafi lagnad, sem kvikindi, til óblessunar ad sældiz sád, er síst hanns rád, fylgir afsleppt yndi.

Lof fyrir lækning slíka, lifanda gude æ! se tied, er þad liet sier líka, til linkindar vid mannlegt gied, hiá sínum maka sierhvor mætte una; so finnande sæla bót, vid synda rót, og hollds óhreinum bruna.

Framar, er þad til frægdar, frómlegann vid egta-hag, til glede og hugar hægdar, hiónum aullum nótt sem dag: af giftre mey ad guds son fædaz villdi; hiúskaps-fleck so hefur afmád, hanns heilaug dád, bölvan burt so skyllde.

Af því víst má vænta, velþócknan hann leggur á, alla eiginn-qvænta, er sig

hann-

haunum hlíðna tiá: ólz hann upp við erſiðe þeirrar ſtiettar; eril búß hefur allann reint, ſem eg ſæ greint, og þrauter þeige liettar.

Víſt því vorkiennt getur, vaukur, mæðu, lúa, og ſtrit, þetta í þriátíu vetur, þvíngaðe hann (ſem. greinir rit) og eptir það í embættið var ſetſtur, með ſinne móður og ſveinum varð, í góðann garð, brúðkaups boðinn geſtur.

Vantaði víníð ſæta, veitſlu lá við yrði ſpiaull; JEſuß breſt nam bæta, bleſſuð ſeu hanß verkinn aull, af teiknagiorðum tiáð. er ſú hin fyrſta, með þeirre, ſínum, þá og nú, hann talde trú, enn þó neið meige nyſta.

Hirðir helgra dóma, her með villði egta-líð, auka æru og ſóma, auðſínande, að hvorri á tíð, í viðlaugunum víſt mun þeim ſem búa, leggia jafnan líkn í ſkaut, með þúngre þraut, og grát í glede ſnúa.

Lífs háſkólann ſkiæra, ſkírer nefna hiónaband, þar marga liſt má læra, ſo líðir fáe rett forſtand, á þeim mikla eðla leindardóme, um guðdómß tignar eylífa áſt, ſem alldrei bráſt, og hærſtur er hiúſkaps ſóme.

Þar gud fader sig gifter, med giædum aullum himnarans, enn synda litum svifter, sálu hvors eins Christins manns; i skírnenne sitt skaparinn brúdkaup helldur: á eylífum sannleik upp er byggd, hans andleg tryggd, ef vor ei bryggd því velldur.

Kóngurinn kraftar hæste, kvongade einka sonenn sinn, þá lióminn guddóms glæste, gaf sig saman vid manndóminn; hiellt þad brúd-kaup hann í módur-lífe: ein persóna nú eru þær, náttúrur tvær, blessud hión sem blífe.

Af meyar klárum qvide, kom og sem brúdgume hreinn, med nád og frægstum fride, frelsarinn JEsus tvennur og einn, gud og madur ad giftaz Christne sinne: samkeyped er hans signad ord; enn blessad bord, er brúd-kaups andlegt minni.

Hefur og heilagur andi, ti! heidurs giorla vitum vær, egta blídu bandi, brúd-kaups fagrar vísur tvær, samsett: undir Salomons nafne eina; adra kalla eg Davids dict: enn drottinligt, ordtak má hier meina.

Guds ried munnur mæla, í mentunar-frædum bádum tveim, ad heill og heim-

sins

sins sæla, hepniz jafnan aullum þeim, í ótta guds sem egta-skapinn stofna, og giora á hanns vege ad gánga beint, med hiartad hreint, í trú og dygd ei dofna.

Má þad hug manns hressa, holld, þó þiáe erfidid, þrennur þad vill blessa, so þar af hafi sitt upphelldid, og heppnaz láta hús og nádugt sæte, sem gud mun siálfur byggia upp best, og bevara flest, med ununar epterlæti.

Eins sem eiken græna, hinns edla sæta vínvidar, egta vísid væna, vera mun húss til eflíngar; bónda prídi mun barna-fioldinn þægur, sem vidsmiørs greiner vaxa í hríng, sá krans um kríng, situr sæll og frægur.

Guds ástgiøsin dýra, er góð og maurg ad eiga baurn, sá mun sigre stíra, sem þad fær, og traustta vaurn, og leinge þar med lífdaga sinna nítur; þýdrar Christne þægd og frid, og þridia nid, sinn hier sælañ lítur.

Prýdt hafa líka og prísad, prúder englar hiónaband, til meya virdum vísad, og verndad so ei skadade grand: Isaach fór einn ad þeirra rádum, annan yngra Tob-

iam̃ tel, hann trúde vel, Raphaels dygd og dádum.

Signadur sendebodé, svartann hepte mord-engil, hættur hiónavode, hindradiz þar: so geingur til, nær gud er bedinn grandi aullu ad varna, vardhallds andinn víkur ei frá, sem gløggt mun gá, bæde húss og barna.

Vída í veraulld breidre, virduleguſtu tignarmenn, ſtiett þá haufdu í heidre, frá heims upphafi, sem nu enn: spámenn aller spakaſter under sólu, helger fedur med prýde par, og poſtular, baurn vid brúdum ólu.

Sexfalldt gagn eg seige, af signudum hiúskap leida kann, á hálum veralldar vege, víf og egta-teingdann mann: í fyrſtu kemur af faugrum áſtum ynde; annad er midlan innbyrdis, og adſtod viſs, med ſamhuga liúfu lynde.

Þæg hugsvaulun þridía, er þidra hióna mille ser; þad fiórda, ad bæde bidia, fyrer bádum jafnt og ſiálfum ſier; fimta, glede, er færſt af barna-gróda; þá er hid ſiotta, þarfleg ment, og helgun heut, ydkun alls hins góda.

Er

Er so egta-hagur, ein hin vænsta lífs tegund, eins og akurinn fagur, sem saf sier giefur hvoria stund, ávøxtenn med edla tyngun nýrre, barnanna er þad heilaug hiaurd, sem himne og jaurd, drottne þyker dírre.

Hiúskap hallda láta, heidurlegann, vill vor gud, ad hier sie í hvørn einn máta, hióna sængen ósleckud, hægast er þá hreinlífisins ad giæta; enn má vel skie ef madur er einn, ad mey og sveinn, raun sáe meire ad mæta.

# Annar Partur Kvædesins
um
## Rettann Vidurbuuning.

Hví skal seggur og sæta, er sín forlaugenn ecke veit, ad grunndvellinum giæta, góds farande snemma á leit, med ótta drottens æsku-skeided prída, sinn Adam ad svæfa fyrst, og syndalyst, enn guds adgiørda bída.

Og epter undannfarna, ydrunarfulla hiartans bæn, sem háttur er herrans barna, med henne ad stofna upptauk væn, so sem kenner Saru og Tobiæ dæme, og

Isaachs líka, er uppliet munn, vid lifanda brunn, eins true eg aullum sæme.

Þvi allar edla-gifter, ad ofan koma oss maunnunum, frá þeim faudur sem skipter, fallega med oss gáfunum; enn ein hin hellsta er egta-make þægur, sem ástvin einginn kiósa kann, fyrer mey edur mann, so une vid aull sín dægur.

Hier um huxa ættu, hvorier sem giftu stunda á, ad horfer víst til hættu, ef hentugleikanum ecke ná, stofnar þá under stærstu lífsins plágu; enn hlotnan sú ef hagnar vel, þá heppne eg tel, mesta mannsins þágu.

Þyker mier þvi áliggia, þeir láte ei á bænum frest, af gude sem girnaz þiggia, góðvilld slíka og lánid best: óbedeñ hefur hann eingvann lofad ad stydia, líder meiga lakare skil, ei leggia til, enn giafarann góds ad bidia.

Þvi blessud bænen góda, bísna miklu orka vann, med henne er best ad bióda, til brúdkaups þeim sem vill og kann, ad hugga og næra hiónen; þad er Christur, faudursins dygdar geislenn glær, sá gudsson kiær, sídarstur sem og fyrstur.

Ædre

Ædre er eingenn hródur, enn eiga hann fyrer brúdkaups giest, med sinne sig-nudu módur, sem hann ætld adhyllis; þad er Christnen þýd, og góds árnande, sem haunum flytur hiónabol, og hvorskins kvol, adstod umbidiande.

Og liúfa læresveina, lausnarans; þad eru kiennemenn, sem telia oss trúna hreina: fyrer túngu og hendur þeirra enn, teinger þá gud sem best til saman eiga, þessara líka þaurf gioriz, á vidurvist, og þarfnaz menn ei meiga.

Brúdhióna efnum bádum, birte eg audnu vænlegast, ad fara ad forelldra rádum, forsiálega, med eingann hast, á elldre dæmen yngisfólked hlere: Isaach þókte eingin vanm, ad fara þvi framm, sem Fader hañs haunum kiore.

Eins fór og hans bródur, Ismael, bar þó stífna lund, samt liet sína módur, sier utvelia egta-sprund, ambátt var þó Agar sem hann fædde; frómur Jacob fór þann veg, sem forelldraleg, rádleggíng umrædde.

Samson hugfest hafdi, hreinlegt sprund til egta fá, enn fyrst til fylgis krafdi, for-

forelldra sína ad mætti ná, þeirrar ást, sem þócknadiz hans álite; løgen skipa guds sanngiaurn, sín gifte báu rn, fedur: þad finnz í rite.

Med augunum skilldi einginn egta-brúdur velia sier, því vænleiks varer ei leinge, virdíng sú er skartar hier, á óródvandri, eins og gull á svíni: Dalila á sier. Samson sveik, í lymsku leik, þad, slagd med saugru tríne.

Gírugri gaupn edur hende, gifta skal sig einginn med, enn girnaz giedríkt kvende, giorz hefur opt, þá átte hún fed, foraucktun vard hinn fátæke ad heyra; þurrt í nádum betra er braud, med eingum aud, enn med aggi meira.

Er því best med eyra, egtavin ad kiósa þann, um hvørn þú fær ad heyra, ad hógvær dírke skaparann, því gudræknine gódu er búid ad heita, annad allt þeim æ! tillegz og alldrei bregz, sem drottins dýrdar leita.

Kvenuleg idtle og æra, med ord-vareygd, og miúkre lund, er meyanna skarted skiæra, og skárstann tel eg heimanmund, er ógifter eiga mest tilslægiaz, ad forelldrum,

vel

vel er, gløggt ſe giætt, og allre ætt, þar vid mann villde mægaz.

Minnſtu madur og ſvanne, ad máttu ei biria þeſſa ſtiett, med lauſung, glenſe, og gamni, giør ſem drottinn hefur tilſett, ſýſn óhreina fyrer þig lát ei ráda, er Saru vard bændum ſiø til meins, og Sichem eins, hefnd því hrepptu bráda.

Hvad ſem hefur fyrer ſtafne, heilaga Páls þad kenner bref, med dygd í dýru nafne, drottens Jeſu, allt upphef, og athuga ſenn hvør endíng þeſſ mune blífa, móti logum og ſæmdar-ſid, þar ſiá þig vid, giøra, og gud þinn ýfa.

Upphaf gott mun enda, alla tíma góðann fá, í haufut mun hollre lenda, hvørſem illu ſneider hiá, og riettre trúar-reglu epter breiter. Allra vorra ſtigum ſtír, þu drottenn dír, ſem allt gott villt og veiter.

## Þridie Partur Kvædeſins
### um
### Hioona-ſkylldurnar.

Heyred hiónin bæde, er hvílu bygged eina ſenn, hvørnig heilaug fræde, húſ-

húsfreyur, og gifta menn, mennta hier, og minna á rietta sídi, er hiúskaps prýda heilagt band, og hefta grand, med sælu og sauñum fride.

I soddan siónarglere, til sýnis stár hier herrauns bod, og hvort gagn þad giøre, ad giegna því, og lucku stod, af dýrra hióna dæmum, sem eg greine, enn illra, hvilík vondska víst, og hugraun hlýtz af misklídiunar meine.

Hatur er hiónum bannad, hvort fyrer sig nærst gudi á, hýrlega hyllaz annad, og hiartans alúd þar til liá: líkt sem bein er límt vid holld á manne, og hendur tvær þær hiálpaz ad, í hvoriúm stad, eins skal seggur og svanne.

Bid eg þann sig hier siáe, siónar-speigle þessum í, so ad sierhvort gáe, sinnar skylldu, og fyrst ad því, ad fyrer eitt ok eru spennt þau bæde, hlióta því ad hallda eitt, so fáe sleitt, laungu lífs armæde.

Sirach sæll því hrósar, ad sínum anda líke þrennt: sem egta er dreings og drósar, dygdaseme og ástúd heñt, ásamt brædra, og allra granna hylle, því gude sie

bæde

bæde og þÿdre þiód, þad þócknan góð, ad kiært sie manna á mille.

Enn egta-ásten liúfa, er æskelegasta sambúd þó, sem einfaulld eins og dúfa, æ! skal koma af hreinum mó, gallalaus, og grædarans svipud ástum, sem meir elskade mig og þig, enn siálfann sig, og borgade bótum skárstum.

Ásten hiartans hira, hugul er og vilia góð, illsku ei kann stÿra, ó-vandlát og þolenmód, ógrunsaum veit alldrei sig ad stæra, ei fagnande illre skemd, og ósid-semd, siærfelld fors ad læra.

Elskan ædsta su er, sem alla hlute ber án móds, ein-ienn aullu trúer, æ, og jafnan vonar góds, hylur lika hvorskyns vam̃ og leste, sannleikanum þó samfagnar, og síst dodnar, allt þó annad breste.

Salomon seger af henne, ad so sem daudenn hún sie sterk, eins og elldur brenne, all-fast-tæk sem vltis kverk, og ad hún slokne ecke i vatne straungu, og allt sie hiá henne einkis neytt, þó være veitt, verde kaupiz eingvu.

Meinte sá er sagde; sem vid heliu stendz ei neitt, er berserk bæde og slagde, banad

hefur,

hefur, og kiempur deydt, og helvítid ei hremdu bíte slepper; so kann ásten saunn og frek, ad sigra allt þrek, um upptekt einnen kepper.

Elldurinn aullu tærer, eingenn frá haunum mein allt bar, eins kann ást sú kiær er, uppbrenna til sóunar, hvort eitt þad í hiúskap ad kann ama, vinnur bæde á stein og stál, þó stórlynd sál, vid bliúga búe til sama.

Hollds af liótum losta, loge kviknar ecke sá, vegna kyns og kosta, kona og madur elskaz má; því gódur er nautur ad gagnlegu egta pare, æruskeinkur hellste er hanns, sem hag sier manns, og eingenn ágiætare.

Kann ad kaupaz eige, kiæleikur, fyrer al-eigu manns, án hvors allt þó sege, ónýtt geinge hiónabands: glædiz hann af guddóms anda á-blæstre, og hanns gód girnd allsháttud, sem efter gnd, miskunar midlun stærstre.

Þó sútar straumurinn stránge, steypiz ofan í þennan elld, og alskyns ánaud gánge, yfer ástsaum hión, so verde hrelld, alldrei þeirra elskn-glædur deya, þó sund-

riz

riz þeirra samvist kát, fyrer sárt andlát, og eitt verde annad þreya.

Abraham unne Saru, alltíd fram̃ í daúdans púnct, eins med ynde kláru, í ellinne, sem þá líf var úngt, Isaach feck umbót sinna harma, med liúfre gifsting, lesum vier, hann liette af sier, um módur-misser ad barma.

Lát so líf þitt gledia, ad lifa med þin̄e æsku-frú, og þitt sinne sedia, sæta hennar ást og trú, under sólu er hún þitt hlutskipte: gáníng hennar góds samlags, til daúdadags skal elska hinn eigin-gifte.

Eingenn ill líkinde, ne andlits fegurd Rachelar, helldur egta ynde, sem innplantad af drottne var, hinns helga Jacobs hug til meyar knúde, so hann tilvann, og lá þad liett, í lágre stiett, ad þiáz sem þræll fyrer brúde.

Ad eins med orde og túngu, elskaz melga ei Christner menn, þad hugse hiónenn úngu, ad heilagt verk og sannleikenn, vitne bera um vilnun ástseminnar, hvor ei skal vera falen í frægd, eda frídleiks þægd, helldur í hiarta innar.

Um Elkana eg inne, ad Aunnu meir med luktann kvid, unne, helldur enn

hinne, er hiúskaps baurn þó átte vid; eins skulu hión, ad óskum þó ei falle, láta gnæfa elsku-art, yfer ólán margt, þó aúdlegd út af halle.

Horfiz hellst til náda, ad hugse þaú og vilie eitt, og verde í raún samráda, rett so ei bere á millum neitt; því frá-skyldu sem þídum gude er á mote, og ærunne; þad frá eg þaú frí, þó fylge ei því, og bodord guds ei brióte.

Fiell því Adam fordum, ad frekar enn gude trúde hann, sinnar Evu ordum, ecke er vorkun þad fyrer mann, ad skeita konunne, enn skapara sínum gleima, Christs verdugur sá er síst, ogsú er snúist, so á sín rád heima.

Því vard Salomon sæla, ad sínum konum unne ofdátt, so hann þær sig liet tæla, svívirdelegann ad fremia hátt; madur og kona meiga ei rángt samhylla, í aullu skal semia audru þeim, enn klækia-keim, og upptekt þess hinns illa.

Menn og sætur siáed, hvad sídan er og hennar rif, hiartanu harla náed, hugfested því Mosis skrif, yckar á mille ástar hitenn blífe; her afbregde hvor-

igt

igt hión, í herrañs sión, med styggd og kaulldu kíke.

Af Nathans dict má dæma, er Dqvid kónge tiáde hann, um velsemd vidurqvæma, sem vid eiga ad midlaz kona og mann, um epterdæme ó jafn-fiádra tveggia. Einn sem hundrad átte fiár, var álna sár, í lóg tímde ei ad leggia.

Felaús annar átte, einstakann sier litenn saúd, af saugdum siá ei mátte, sá med haunum át hanns braúd, þenna sama þegnenn kiærann hafde, drack af kere siálfs med sann, og sofande hann, med aurmum ad sier vafde.

Siáandenn so ried meina, í saugdum dict um þann sem her, saúdenn átte hiñ eina, Urias var þad Hethiter, brúder hañs kiær var Bersabe hin væna, dárlega hvorre David ried, þann mánn og med, lífinu líka ræna.

Eins þegar lambed siúsa, og líkt sem Urias, ættu hión, eitt vid annad búa, enn ecke so sem dreke og lión, síns húß egta-saúd med hardúd granda, hiá þeim sem hittiz sambúd sú, eru satans hiú, drifen af illum anda.

Enn siá hvad hitt vel sómer, (psálma skállded þannenn kvad) þá egta-felagar frómer, í forlíkun vel hiálpaz ad, fyrer drottne er þad, sem dogg sú epter gróda, ad bæde hauns líf og blessun klár, um eylíf ár, yfer sambúd sælldaz góda.

Sem balsam best ylmande, er brædra og hióna samlynded, í soddan saúdabande, sitt vill Christur tiódra sed, ad so fylgiz í sínu helgu nafne, tveir og tveir, og so med sann, er siálfur hann, þridie í þeirra safne.

Hvort á ad heidra annad, hofud er madur kvinnunnar, yfervalld brúde er bannad, enn bodord Páls so tilskylldar: hvor ser annann hafe í virdíng ædra; sitt skal madurinn sæma víf, sem siálfs síns líf, þaú eru bítinn brædra.

Fátt kann finnaz verra, ef forackt millum hióna er, hvor ydar sem er herra, hañ se minstur Christur tier, undergefenn æ! se konunnar vilie, mannsins vallde, enn midle þó, med ráde og ró, á so alldrei skilie.

Abraham Saru sætte, so sem af drottne til var sett, vid hana varla þræte, er

visse

visse hún hafde ad mæla rett, herra sinn
hún hann þó vidurkende, og ofurrádum
eingum bar, enn aúdsveip var, so skulu
karl og kvende.

Wasthi vard útreken, vondsku full og
þverúdar, Ester inn þar teken, og upp-
hafen til drottningar, af Assvero, sem
egtamannnum skráde, guds af laga rettre
rót, þá rettar-bót, ad hússtiórn reckar
ráde.

Þesse er heidur hióna, hvorutveggium
jafnt í vil, hún er hanns coróna, hausd-
inu búen soma til: er corónan ædsta
hausudprýde, enn þar þad er dosed og
daúdt, er diásned snaúdt, eins og ónítt
smíde.

Vid sól á festing frídre, er fagurt skín
og vermer heim, líkt er línspaung blídre,
til lærdóms er þad hiónum tveim; himin-
inn uppe helldur sólarmitte, ef geinge hún
ecke línu og leid, og skipad skeid, þá
dapradiz hún og ditte.

Vid staudugann stólpa af gulle, þar
stiórnin húss er uppábyggd, svannen
sæmda-fulle, samlíkiz því stadfaust dygd,
er hennar príde, í hvorre hún á ad glóa:

gódre konu gedstilling, er gullvægt þing, og klappar lof í lófa.

Fegursta se í heime, frá eg gulled hreinnt og skírt, ædst af aullum seime; er þad þó í virding rírt, hiá hugvitugu og hollu egta-víse, eingann síód her eignaz mann, so ágiætann, í vaulltu veralldar líse.

Frómrar sætu sóme, er so sem liós þad fagurt skín, hátt í helgedóme, hús sitt príder silkelín, og sá sem odlaz soddan kvinnu eina, gód-vild stóra af gude sær, og giæfu nær, líf mun rósamt reyna.

Gódann hlut eg greine, gosigt slíód med dyggva lund, er, já, edalsteine, ypparlegra soddan sprund, med heidran búe því hvor vid konu sína, og fót-trode ei so semætt þing, med fyrerlitning, því þad er sídur svína.

Þessu er þannenn vared, þeink minn vin og gát á haf, manne er miaug vandfared, med mætann grip er drottinn gaf, ad haunum í sinne heipt ei frá þier svipte; ef med hann þú ecke fer, sem best þier ber, máske um margt þú skipter.

Eingenn veit hvad átte, ordtak þad er daglegt mál, fyrr enn miste og mátte, mann-

mannskada sinn af hryggre sál, þreya og klaga þúngum med sauknude: sinn vid maka sierhvor þá, á medann má, une gladur í gude.

Sem sól med sinne príde, sier ei skín, ne liósed glært, og gull-farfenn fríde, faugur perla og diásned skiært, allt er þetta audru giort til blóma; hvorskyns gáfu hríngs skal bil, þar hallda til, ad leita síns manns sóma.

Eiga hión ad annaz annars naúdsýn hvort um sig, soddan skyllda sannaz, og sýniz vera nátturlig, því eitt holld eru innbyrdis þaú bæde; æ! því midliz aullu vid, um lán og lid, sem fyrr er kendt í kvæde.

Telz því tveimur þægra, til samans so hiálpaz ad, bádum betra og hægra, enn búe einn í hvorium stad, hægindа so hefur oss drottinn leitad, ad haufudid skyllde hennar hann, enn hún med saun, mannsins medhiálp heita.

Skulu í hausde skína, skiærleg aúgu forsiónar; her med heyrnenn fína, er hvorskyns þarfa athugar; og munnur sá er um margann ósid vande; og heilinn

þar ed hugvit býr; sem skaurp og skír, ylman adgreinande.

Búks er haufudid herra, því hvirsill stér á manne efst, hiálp má þess ei þverra, er því af sinne hende gefst; hnien og fætur hallda þó uppe bádum: þá hvor einn audrum limurenn liær, og lid sitt fær, náttúran er í nádum.

Haufuded hærst þad lenar, hentuga stiórnan limunum, haundin þrisen þenar, þarflega aullum manninum, enn iliar og fætur allann þúngann bera; madur og kvinna er haufud og haund, enn hiú rád-vaund, verk sín viliug giora.

Med munne og hende hlítur, hvor og einn í þessare stiett, vera ad nockru nýtur, til næringar sem til er sett, synd er maste sveitalaúst sig metta, einkum þeim sem audrum skal, í eymdardal, vera til lids og lietta.

Adam akra fægde, Abel rakte saúdaslód, nýtur Nóe plægde, ad nýu epter synda-flód, Isaach siálfur í ó-árinu sáde, heila mæla himna miøls, nam Israels, safna lídur á láde.

Christi

Christi fóstrenn fríde, forsorgade Mariu og sig, trúr med timbur-smíde: já, tign í hollde guddómlig, ásínd þræls bar allt ad dýrdar skeide; Petur og adrer postular, til plógs sig bar, fús á fiske-veide.

Sá er sier kvontudum, syniar stirks, í eigenn stad, verre er vantrúndum, von hefur helgre afneitad, húsbóndenn þad hygge ad sín se renta, ad afla til med æru og trú, og annaz bú, brúde og baurn ad menta.

Og þegar sætu siúka, ser uppá, skal leita ad bót, af allre alúd hiúkra, med andvarpande hiartans rót, til læknarans, sem líkn á sorgar dege, heited sínum hefur lýd, ef hiálp gefz blýd, gofga, enn gleima eige.

Eins skal egta víse, umhugad í sinne stiett, mæddu mannsins líse, medhiálp vera, ad falle liett, bádum þeim, sem bágt er audru ad vinna, innan bæar umsión slíng, og útdeilíng, hennar lítt má linna.

Því gegn og greidvirk bæde, giæten líkiz sylkelind, í Salomons faugru fræde, vid fótvakra og þæga hind; dægelegt er

þad dír og maurgum fremur, med sínum kálfum hún er hrein, og sialldan sein, elsk-ar únga og temur.

Eins skal seima sága, (sónia eg þad og æru tel) med hirtne húsed fága, hiú og baurninn aga vel, því tómlát kona, og taum á óræsluna, sem rotnan leggz og mesta mein, í mannsins bein, so vill mik-lu muna.

Edla epterdæme, af Abigael lære sliód, þad trúe eg þessa ræme, hún þóktiz ei til neiñs ofgód, med allre sæmd vid ill-mennid hún breitte, fætur baúdz á þen-urum þvo, og þad fór so, hún hærre nafnbót neitte.

Her skulu hión adgæta, hvort sem be-tur kann, þad á, um fyrer audru bæta, alldrei þeim þad leidaz má, so biriadar tryggder blífanlegre stæde, er sín á mille bundu blíd, á brullaúps tíd, miúku med jáqvæde.

Eitt má ei annad tæla, yfer þaú hvort sem drífur her, bol edur blessud sæla, beg-gia er þad sem annars er, hvort má audru hiónanna einkis varna; því svarande, þetta er mitt, enn þú átt hitt; glaud sege helld-ur giarna. Vid

Vid bolinu meiga búaz, bæde hión í þessare stiett, og miaug vid maurgu snúaz, mun þá serhvad falla liett, ef hýr samtauk þau hafa í þolenmæde, ad bera so-sem himneskt hnoss, þann herrans kross, af sorg þó svíde og blæde.

Fyrst er ad læra ad lída, þad leggur siálfur drottenn á, hanns so hiálpar bída, heilaug reinsla kallaz má, líkt sem ad eru líkamans kaún og sálar, aúdnuleyse, og oreygd snaúd, þegar brestur braúd, er sumra sinne briálar.

Obiriuskap og annad, ángurlegt hafa helger reynt, lided og leinge kannad, lidsemd komed maurgum seinnt, ástmenn sína orded líka ad trega, aptur so þad góda er gaf, tók gud þeim af, med mannraún margvíslega.

Menn hafa margt ad lída, mest óhlídne af baurnunum; vid hatre. her má qvída, hreckium, skulde, og áligum, rádríke, og raúngu maurgu ámæle, ó-þacklæte, og íllt fyrer gott, og einnenn spott, af hvorium húsgángs þræle.

Einkum ósamlynde, ef þeim siálfum vill þad til, ad eitt kann eckert ynde, af audru

audru ad hafa, er vóda-spil; þvi kannske vill þá komaz þar upp á mille: vilie hvorugt vægia þá, og vondu afslá, sigur fær satan ille.

Enn þaú ecke meiga, hid illa láta viña sig, hiónenn helldur eiga, á hinu vonda finna svig, umbera hvort annars brest, og segia, med gódu til, ef gefz ei bót, skal gud af rót, bedenn til betra ad hneigia.

Hvorskyns hamíngiu tage, af hermdum raúnum margt edur fátt, í meira edur minna lage, ed mañnum kemur úr hvorre átt, er eingen bot vid aunnur betre enn lída, og Christo sitt ad kiæra mein, ef kemur sein, herrans hiálp, ad bída.

Þá vesaul varer ei leingur, vina og frænda adstod hál, guds fullting inngeingur, gledia má þad hryggva sál: enn þó hann sýne endur og stundum tregdur, þá er bót og nád hanns nærst, ad neyd er stærst, ord sín alldrei bregdur.

Gott er gude ad treysta, þó giore hann eckiu, konu edur mann, og sinn hug ad hreysta, vid holld þó skilie lífs aúdnann,

vor

vor er hann gud, enn vier hanns sierhvor skepna, ad falla í líknar hendur hanns, er hagur manns, tel eg þad hlutdeild heppna.

Aullum hióna efnum, óska eg góds fyrer Christi blód, sem og samangefnum sína drottenn anniz þiód, blessan gefe og bót á raúnum sínum! fyrer egtastands sins æruhag, se ár og dag, dýrden drottne mínum!

Driúgar bragar bøgur, brotnar þrotne, er ordte Joon: þagnar Magnuss Møgur, minn þegar linner erenda són: Hioona-Speigel heita læt eg kvæde; hvor þad færer á hægra veg, þeim ósk eg, hann gudleg ødliz giæde.

# Eckiu-Roo.

## Eitt Kvæde sorgfullum Eckium til hugfróa.

Med lag sem Hiónasinna.

Eckian yndis hriúfa, er ástmann liden þreyr, eins og daupur dúfa, drottins mál

mál þú heÿr, sem þier skal kenna kvæded mitt; hvörsu sætre hugsvaulun, hann hvíslar í eyra þitt.

Þig hefur giort ad græta, gud, þegar tók þinn mañ, blessadur vill þad bæta, boled, siálfur hann, sem plagar ad snúa vatne í vín: epter skúr og ofaufall aptur sólen skín.

Munu þad marger sanna, mannskadenn er sár, hellst þegar kvendenn-kanna, hann kúgar af aúgum tár, eckiudómur er ángurs sess, sú þad reyner, sannlega margt, síngur hrygdar vers.

Meina eg margt hid sama, mege beinaz ad, sem ynde hennar vill ama: eitt er sannprófad, all-marger hafa ádur og nú, opt sier giort vid eckiur dællt: eg veit dæmen þriú.

Eckia eiñ á daugum, Elisæi var, af sínum sorgar haugum, sig aúmlega bar, þá heimtarar skullda hreifdu því, ad hennar villdu hneppa baurn, hardann þrældóm í.

Hræsnarar hvörier ed sátu, á helgum Mosis stól, med flærdum í sig áttu, eckna hosudból: sá ed visse sagde þad; þessara makar

makar þeir eru enn, sem þvílíkt hafaz ad.

Víkur á vor laúsnare, ad vered hafe i borg, óheill yferdómari, og eckia full af sorg, underþryckt af ofríke, allseint feck hún uppreisn máls, opt kann slíkt ad ske.

Eckiu raúner allar, ótal reiknaz mier; hinum limunum hallar, hofuded burt þá fer, sem kallaz madurenn kvinnunnar: med sínum baurnum, hofudlaús her, meiga heita eckiunnar.

Enn bitrann dryck skal bæta, so beisk-iuna take úr, ef meira má þad sæta, mínkar allann súr: sorgar kaleik sykrar gud, eimdum hollds hann umvendt fær, í andlegann faugnud.

Jurter gódár giora, gledelegt heilsu vín; drottenn distillerar, dapra hrygd og pín, í gegnum helgar hugganer; af þeim sætna einnen víst, eckna hugraúner.

Fagnadar jurtena fyrsta, finnre enn sætt anis, af vænum vide má hrista, sem vex í Paradis, ríkblómgadrar ritningar; hiartans drýpur hunánged best, af hvor-ium kviste þar.

Allt

Allt hvad skrifarenn skráde, skíra bibliu í, fagnadar fræe sáde, fíngur drottiñs því; so her af yrde hiaurtun fród, med huggun esld í helgre trú, hraúst og þolenmód.

Guds ástkvinnur gódar, gist hafa forlaug haurd, urdu ángurs módar, eckiur her á jaurd, Naemi er nafnkunnug; Ruth og Judith sierhvor sú, var svinn og hreinferdug.

Af-sá egtamanne, ein í Naims stad; syne í sama ranne sínum epter þad; siosinnum var Sara gift, Raguels dótter eckian úng, aullum bændum svipt,

Maria mey vard eckia, móder dróttens hrein, hlaút þá sorg ad seckia, saman vid aunnur mein; hún ein lagde mest í mold, þá jómfrúr sonurinn Jesus dó, og jardsett var hañs hold.

Fleirum frómum kvinnum, fiell til þesse neyd; líka í manna mynnum, maurg þann skada beid. Ein á stigum ecke ert þú, ged-hógvær þig gef til frids, og grát ei leingur nú.

Vel er vidunande, ad vera í þennann hóp, her med heilagur ande, heidra vill

þitt-

þitt óp, guds vilie ecke grandar oss, þad er meire bate enn bol, ad bera drottins kross.

Aunnur edla plóma, yrd í mótgangs skál, gliúpum leggz á góma, og gledur hryggva sál: gud ad smacka gefur her, hvorsu í orde signudu sín, ad sætur og liúfur er.

Gud í hæstum hædum, himna kóngur-inn skiær, fullur af fagnadar gædum, fader nefniz kiær, þeirra er eingann eiga her, upporpenn er ecke sá, sem ad hanns rádum fer.

Aullum einstædíngum er þad stór hug-gun, vill hann vesælíngum, veita for-sorgun; helgur David hermer frá: fader-inn gleimde, og módurinn mier, enn minn gud stód mier hiá.

Eckiur einnen meiga, yfer því fagna her, hiá haunum adstod eiga, ætíd vísa sier; því dómare þeirra er hann, ríkur bædr ad ráde og makt, rettlætinu ann.

Ad ángra og ei vid retta, eckiu og fauds-urlaúsann, og fe edur klædum fletta, fyr-erbýdur hann: í løgmáls-bók þad lesa má; psálmum líka og Salomons diet, og siáen-danna skrá.

Hier af hellst má skilia, ad hefur hann þeirra svar; hann er ei hægt ad dylia, hefner alls órettar; gidínga drap því heidenn her, ad ásældur þeir eckiunnar, því ályckt gud so tier:

Hvor sig venur ad hvessa, harmfullrar eckiu nid, reide mín skal þeim ressa, og ræna hann lífsins frid, so brúdur hanns misse bónda sinn, og þeirra baurn verde þurfa-menn, þad er dómur minn.

Sá nú ecke sæter, soddan forbodum, ángrada giarna græter, med grimd og áaugum, banvæna mun bølvan fá: al-múge skal vid úrskurd þann, amen segia, og já.

Illt vid eckiur ad fremia, eda ángra í nockre grein, og gud sier þar med gremia, ad giøra þeim styggd og mein, forde aull-um faderinn klár, einkum frómre yfervallds stiett! því umtal drottins stár.

Her nærst haufum í agte, háleit drót-tins bod: vill hann mann sig vakte, ad veita eckium stød, og þeirra gledia særda sál, einnen láta þær allt ske rett, óvafed er mál.

Hvor sem hátíd góda, helldur og gledes-dag, eckium inn skal bióda, ad odliz sæl-dar hag; so hennar baurn þar hafe af not, þetta skipar dáda dýr, drottenn Zebaoth.

Christur hid sama kennde, er kom í Naim-borg, med túngu, hiarta og hende, hepte eckiu sorg; og Johannes kærstur Jesu sveinn, munadarlaúsa módur guds, medtók ecke seinn.

Játníng Jobs af munne, er jafnan minnelig: ad hann af hiartans grunne, hefde aúmkad sig, frá æsku sinne í allan stad, yfer hrelldu eckiu hreidre því, sem her átte eingann ad.

Eckiu rád so ræckia, og reynaz þeim í neyd, med huggun heim þær sækia, ad helldur fáe þreyd; og faudurleysíngium leg-gia lid; guds þiónusta er góð og skiær; gediaz himna smid.

Hann á himne og jaurdu, hefur þeim umbun tied, eckium gagn sem giordu, gott hefur alla sked: Elias vard upp-numinn; Job feck tvosl ikt aptur allt, epter mótgang sinn.

Þridia sætleiks salla, er síaz boled í gegn, sturlan stodvar alla, stytter upp

tára regn: fyrerheit kalla eg faugur og hrein, guds af munne geingen út, gledia sál og bein.

Ef med sínum úngum, upphrópar til mín, eckia af þela þúngum, þreitt í haurmum sín, heyra skal eg þann harma són, og hvorvetna á hiálpar tíd, hennar veita bón.

Þegar svella sárinn; (Sírachs hliódar grein;) opt falla eckium tárinn, ofan á kinnar bein; enn þaú klaga í himininn hátt, illvígs manns yfer sekt og synd, sem þær leikur grátt.

Er gud eingum fiærre, er tilbidia hañ, situr hvorium hærre, enn horfer á naúdstaddann, harmþrúnged sem hiartad ber; heilags anda huggun sú, harla gledileg er.

Sann ad sínum ordum, siálfur gud hefur sært, opt; enn eittsinn fordum, eckiur á litlu nært: í Sarepta ein biarglaús bió, enn gud fyrer henne ól so auñ, hún ecke í húngre dó.

Til Mariu módur sinnar, miúkum aúgum leit, þá sverdid sorgarinnar, sárt á hana beit, frelsarinn, ádur enn liet sitt líf, bífalande besta vin; biargþrota var víf.

Sann

Saru sorgarligre, seinna ad óskum geck; Júdith sætum sigre, og sæmdum hrósa feck, vid gifting fagra gladdiz Ruth; allar þessar af hanns náð, sóluduz góð-ann hlut.

Hugbót her hefe eg þrenna, hermt í mínum brag, farnan frægstu qvenna, er frídkar eckna hag: guðs lidsinne, og full-tíng frídt, og heitord þad ad heyra bæn, hvonær sem geingur lítt.

Siá her nærst þinn sóma, sækan har-matvist: haf nú hegdan fróma, heims foragta lyst, sem í kláru orde kenner gud, og helgra eckna dæmenn dýr, af drottne annálud.

Huggunar hnossen gódu, hermd í kvæde fyrst, heyra ei hvorre tródu, sem hefur mann sinn mist, því vil eg sína sætum her, í rádhollustu reglum siñ, hvad rettre eckiu ber.

Hin fyrsta eckiu æra, ynde og sálar gagn, er, ord guds ydka og læra, elur þad trúar magn: áttræd giørde Anna þad, útslítande eckiu tíd, í heilaugum stad.

Kóm þú í kyrkiu og hlusta, á kiær vin-áttu mál, þíns andlegs unnusta, ávarpar

so sál: óttaz ecke, ertu mín; med þier er eg í þinne neyd, þar til ad hún dvín.

Ut hefe eg þig valed, opt þó hrióte tár; allgløggt einnen taled, aull þin høfudhár; ovin fær þig ei hripsad, úr haundum mier, þvk heited þitt, hefe eg á þær teiknad.

Móderin her í heime, af hollds afkvæme ser, enn eg þier alldrei gleime; ert þú faustnud mier, í eylífre ást og trú; áhyggiu þinne efalaúst, allre til mín snú.

Aunnur eckiu mæte, eru ad trúa best, á þess orda ágæte, er allann bæter brest: sem Abraham giørde; og svanninn sá, er neyddiz bana sonanna sio, sinna ad horfa uppá.

A soddan sálarpríde, siálfs guds aúgum líst, krýner hún Christna líde: kvinnurnar hafa ei síst, holpnar giørz fyrer hennar kraft, og Christi anda; sem Canversít vlf, þá kvalareñ sagde tapt.

Brúdurin blódfallssiúka, og blessud Maria frú, heilsu og huggun miúka, hlutu af sinne trú. Sálar aúga hún segiaz má: sæll er hann þad setur þrátt, siálfann Christum á. Hend-

Hendur útbreidde bádar, brúdgume þinn á kross; sannleiks nægd og nádar, nú blaser enn vid oss, í orde og teiknum helgum hanns; med trúar fadme taktu á mót, trygd þíns egta-manns.

Þá er í þridia lage, þeirra príde góð, ad sier ærlega hage, í eckiudóme flióð, verkinn hrein so votte trú: skírlífed er skraútleg dygd, skartar vel á frú.

Eindrægne ad unna, er kvennsóme hreinn, og kiærleiks verk ad kunna, kostur fegurste einn: gestrisnin mun góð laún fá; guds spámenn í gamallre tíd, gistu eckium hiá.

Ord til offurs lagde, eckiu fátækrar, Christur siálfur og sagde, sú til kyrkiunnar, meira gaf enn hinna hvor; útlát smá opt virdaz vel, ef viliinn manns er ör.

Ruth var rómsæl kvinna, og rík ad hreinne dygd; Júdiths lítt má linna, los um heimsins bygd: fagrann speigil frá eg þær. Það er fyrer gude farsæl frú, sem í fótspor þeirra nær.

Fiórda íþrótt og ydia, einsamallrar frúr, er gud med blídu ad bidia; biarg-

vættur er hann trúr, og þá er so sem hvíllz hión, ef optlega kemur til eyrna hanns, þín aúdmiúk hiartans bón.

David eckium elldre, ord leggur í munn, ad so med sálu hrelldre, sæke heim nádar bruun: yfergef ecke í elle mig, voldugaste verndar múr, eg vona uppá þig.

Ungar í eckiudóme, ydki Sírachs bón: lkfs míns faderinn fróme, forda minne sión, vid ótierlegre allre lyst, so órykte og eingenn brhxl, ad mier tilleggiz.

Opt og ydulega, eckiann koma skal, med hrygd og hugarins trega: á himna guds eintal, og tiá haunum sitt tión og brest: óbrigdul er adstod hanns, enn þó drage á frest.

Seinast eg þad sege, er sannrar eckiu prís: þolenmód ad þreye; þó í voninne vís, ad mune fyllaz aull vid sig, faudursins hæsta fyrerheit, faugur og trúanlig.

Vonen verdur eige, vinanna guds, ad smán, sorg þó mæta meige, og mínke aúdnu lán, í þessare aulld; sem þrátt hefur sked: hvor mun þora, þeim á mót, sem þrennur og einn er med.

Lát nú þier ei þóttaz, þó guds villd se sked: hirdtu ei haurmúng óttaz, huggarinn er þier med, næger oss aullum nád= en hanns; hel og neyd er hremmer þig, úr hende laúsnarans.

Þó lífinu satan svíptiz, síst skal vonen rírd; sálen gude giftiz, í glæstre skodunar dýrd; egtamann har sælann ser. Besel Drottne hús og hiú, og hvad sem epter er.

Fagrar fim̃ í-þrótter, frú þier kem og lær, dýrre enn gullegar gnótter, í guds aúglite eru þær, med skarte þessu skrýde þig, þíns unnusta heilaug haund, holl og ástúdlig.

Oska eg ærugiæddar, eckiur styrke gud! hugge harme mæddar, og heilagann faugnud, sende þeim í sinne og brióst! so hugse mest um herranns nád, hrinde sygd og þióst.

Gsfigum maunnum gefe, gud til sína nád, ad sorger eckna sefe, og siáe þeim veg og rád! og umbune siálfur ærn hót; enn forláte hinum sína synd, sem þeim bláſa á mot!

 Eck=

Eckiunum ógudlegu, sem (eins og Jesſabel) ganga glautunar vegu, giøre ſo drottenn vel, líſſins gautu leide þær á, ſo uppliſtar af anda hanns, ad ſier lære ad gá!

Gud gefe, þó eg þagne, ad þær sem hlída brag, í miſkun faudurſins fagne, og fáe af glede dag! bid eg þeſſ af blídum mó, her ſkal þrotna hródur minn, heite hann Eckin-Roo.

# Faderne

Kallaz kvæde þetta, kennande hvør ad ſe ſkyllda

## Forelldranna vid Baurnin.

Fader og móder heyred her, hvør ad yckar ſkylda er; gud hefur fiolgad yckar ætt, med æru, heill, og bleſſan gædt, af yckur hafed þid ávaurxt geted, og einnen fædt.

Baurninn eru guds áſtgiauf; gefed haunum í ſtadenn lof, afkvæme og yckar kind, á ſier ber ſíns ſkapara mynd; afþvær ſkírnen Adams fleck, og erfda-ſynd.

Ef

Ef kóngurinn einum gerſeme gefur, gofugann naút ad ſkeink ſá hefur; clenodium og kiør-grip þann, keppiz vid einn hyggenn mann, ad forvara ſo fargiz ei, því feſiod ann.

Ædſte kóngur ávauxt lífs, under brióſte lætur víſs, frióſgaz þar; og framleidiz foſtur af þeirre myrkre viſt, fyrer guds handa frægann mátt, og fagra liſt.

Drottenn hefur ſinn miklad mátt, og miſkunſeme á þennann hátt, yckur frómu fedgin vid; forelldrar nú heited þid; fyrer því hafed fedra og mædra fagrann ſid.

Baurninn eru hid fegurſta fe, finnz ei ſlíkt á jaurdunne. Þaú hefur drottinn dýrra keypt, enn Draupners hagl, ſem verdur ſteypt. Fared ſo med, þid fáed af ſæmd, enn flýed heiſt.

Barn ſitt hvør einn elſka á, ſem eylífur fader himnum á, ſínum einka ſyne ann. J ſonarins nafne hiúkra kann, arfleidíngum er ſig reida uppá hann.

Helgra manna hiaurtu ſín, hafa unnad baurnum ſín: David og Jacob drýgdu grát, dapær epter ſona lát; Annæ Tobiæ ſíns ſaknade, ſialldan kát.

Mæler

Mæler gud, ad móderin góð, mun sitt ei forláta jód, og faderinn aúmke sonu sín, ef ser þá líða nockra pín, gefande eige griót fyrer braúð, medan góts ei dvín.

Afkvæmunum til adstodar, eru skepnur mállaúsar: hænan úngum vængia vaurn, veiter, so ei grande aurn: edled vill mest áster legge á sín baurn.

I þann einn máta þó til sanns, ad þocka og hylle skaparans, æru sinne og andar frid, eingenn lóge fyrer sinn nid, fyrrande sig himna hauli, fyrer hollðsins sid.

Apiniän fær eingann prís, sem of-fast klappar sínum grís, þar til hann úrvinda er: ýfermáta hvad sem sker, lídum æ til lýta snýst, enn lofstír þver.

Barnenu sá sem vel nú vill, variz hyggenn dæmen ill; skylldugur er um tæged tvent, til maunnunar úngum hent, lífs og sálar biaurg sem bæte, er **bravd** og meint.

Meira verd er mannsins aund, enn mage saddur og aúdig haund. Fyrst af aullu fliótt sem má, skal flytia baurn ad

skýrnar sá, og handselia þaû hæstum gude himnum á.

Samuels móder Anna ein, aunnur Maria jómfrú hrein, vid sína nidia so hafa breitt. Sá ed trúer og skírn er veitt, í gledinnar ríke geingur, og er med gude eitt.

Adgætslu og uppfæde, eiga menn ad láta í tie, vid barn sitt medan í ómegd er, med ærlegum hátt, sem betur fer, og útvega því erfda-hlut ef aúdnan lier.

Þesse skyllda skín so bert, ad skynley-síngar hafa þad giort; eitur-kyndur bióda briost, og bestíur adrar þad er oss lióst, úngum sín til uppheldis, med eingann þióst.

Ad aúk þessa sem ómagenn þarf, (ein-hlýtt er ei þetta starf) er upptiptan og age gódur, úngdómurinn so verde fródur: frægelegre er fordilld sú, enn fiárins gródur.

Edstu speke upphaf er, ótte guds, þad vitum vier; til gæda allra er gód og neyt, gudhrædslan í hvorre sveit; faugur hafande forlaga tvennra fyrerheit.

Í faugrum aga er faled þreñt: fyrst af því er kenfla og ment, helgra fræda; lofs med list, liúfra bæna ad innrætiz, og psálma saúngur, gliúpt so ged til guds hneigiz.

Skipan guds her skilia má, skylldu hlídne hann ad oss á, talar hann fyrer Mosis munn: mín bod skulud þier giora kunn, aurkum ydar, og opna fyrer þeim Israels brunn.

Um páska lambsins innsetníng, allt eins hliódar guds meiníng, sem útleidslunnar birter bók, blessadur so til orda tók, vid Israels menn þá Egiptalands ógner jók:

Ceremonia sú skal mín, sattmáls bod hiá nidium þín, æfenlega; og þegar þad, þinn sonur þá spyr þig ad, af hvorium raukum er helgeteikned handtierad.

Herma skaltu haunum þá, hvornen þier leystuz plágum frá, og lifdud fyrer lambsins blód, þá letuz þaú hin heidnu jód, þar af verda í þeckíng minne þín baurn fród.

Her med eiga fedgin fús, ad fara med baurninn guds í hús, (ad epterdæme og

egg=

eggian Christs, er úngur geck til musteris)
til aflaúsnar þaú einnen leida og alltaris.

Faudur-arfur er fegurstur sá, er for-elldrar láta baurnum hiá, ef sonanna brióst er so mentad, ad siálfer hnige gude ad, med frægre rækt, og framvegis kome í forelldra stad.

Ef baurnum er þad brióst-vit lent, til bóka náms ad verda hent, og forelldrar hafa faúng þar á, med fe edur gunst þeim koste ad ná, heidur er þeim til hærre skóla ad hallda þá.

Hinum vid væna handverks list, ad hallda, er best, sem allra fyrst; því ydiuleysid úngann mann, til illsku giorer framlútann: er sá sæll, sem alldrei hrapar, í þad bann.

Lugta keren leingst af því, sem láted er í þaú ferskt og ný, se þad sætt eda súrt og ramt: sídur, og tiptan hafa þann skamt, þad úngur nam, mun aulldrum verda einatt tamt.

Dæmed gott þad annad er, aganum sem ad tilheyrer: ad sidferde hafe forelldrar frídt; fremur er því enn ordum hlídt. Brádgior nema baurn þad sem í bæ er tídt. Dreck-

Dreckingar og daúda sauk, drottenn leggur á þeirra mauk, sem þiófnad brúka, lygar og last, eda lítum sínum hrósa fast, so mítur lítel mege baurn af mannspillaz.

Krabbenn talar vid króga sinn: kreikadu rettur sonur mínn, ansade grís sem inner her, alldrei sá eg þad fyrer mier, eg læt mier nægiaz liúfe fader ad líkiaz þier.

Umvaundunar orden snaurp, og vandarins hirting skaurp, þridie hlute agauns er, ádur enn lundenn verdur þver: fáer eda eingver sinnaz únger fullgiørder.

Frá æsku-tíd med allann saun, til ills vill hneigiaz náttúran; í úngdóms huganúm bernskan býr; burt hún undan vende flýr, enn agalaús í vaumum vex, sem villdýr.

Því áminner Salomon sæll, ef sonur þinn er ecke dæll, vaundenn láttu vinna hann fyrst, medan von er til hann leidrettiz, so hyggniz barn, og hafer þú sídan hiartans lyst.

Sírach vitur sidspekingur, saumu kenníng uppástíngur: ecke láttu úngdóminn, allann hafa vilia sinn, so hans ofþriótska hrelle ei sídar huga þinn.

Ad

Ad barna þinna brekum skalt, brosa ei, ne skemtun hallt: óvanda þeim eingann líd, í æskunne þaú tem og híd; annars hefur þú ángur af þeim ár og síd.

Hóf á þessu hittiz lítt, í heiminum þad geingur tídt: einn er of í strauffun strídur, strákskap allann hinn umlídur, enn so fer ad óhóf bádum epterá svídur.

Stráングur age sturlar baurn, stadlaús verda og hlugiaurn; forelldrar mega fara med vaund, þó fleinge ei eins og baudauls haund, varga klærnar veikum þannen vinna graund.

Þeim offstopa viðvarar, vitur Páll: þier forelldrar, hfed ei med ertíngum, ydar baurn í grellskaupum, her bannar hann líka bolf ad hafa yfer baurnunum.

Eingu sídur er oflinur, agenn barna skadlegur, því þad er drottins bodorda brot, sem bage fylger og aúdnu þrot, af ofmiklu hafa menn epterlæte eingen not.

Sírach bæde og Salomon med, í sama anda hefur tied, ef heimskum syne hampar þrátt, hann þú sídar varast mátt; ydrast sá sem úngling tekur yfred dátt.

Ef úngmennid agañ brestur, ólmast þad sem galinn hestur: á módur þess sú mínkun hrín, sem miklar faudursins hiarta pín; því ófyrerlátsamt ecke lætur af upptekt sín.

Hvor sem sparar ad hirta barn, hann er ecke ræktargiarn; vid bodord drottins báðeur og þver, enn bagalegur siálfum sier: ábyrgd hefur á únglíngs hag, ef illa fer.

Eins og hendte Eli prest, arfa sinna visse brest: báder fylltuz bølfunar, blygdun eingen med þeim var; enn hann liet þá ei heyra til sín haustugt svar.

Sverds fyrer eggium sæfduz þeir, synda þrælar báder tveir, enn sem prests ad eyrum þaút, ó-góð fregn, úr stóle hraút, so herda þúngenn hofuded sveigde, og hálsinn braút.

Grályndt barn, sem gude er stygd, giorer opt sínum faudur hrygd; audrum hneixie af því sker: óvin þiónar, enn glatar sier, fyrerferz, og fædíngar dege formæler.

Enn sá sem xatar mundángs mid, og medalhóf, um tipt og sid, getur sied sinn gráta son, gladur er hann í þeirre von,

sídan

slíkan gledz sem Sírach spáer og Salomon.

Hirting giorer hyggende, á holldinu þó hún ómiúk se, vitur sonur ad víśu gledur, veika módur og gamlañ faudur; þvi hylle manna og herrans ást er haunum medur.

Sá rett venur syne og dætur, sinn óvin hann hryggiaz lætur; enn ástmenn fagna sem þad siá; þó sofne faderiñ burtu frá, þá er sem lofsæll lifi ætíd láde á.

Ugglaús deyr sá madur mætur: því maka sinn her epter lætur, sem heiptar maunnum hrunded fær, enn hugnaz, og er vinum kær; med frægd og heidre faudur síns í fótspor nær.

Fedginum med forsiá ber, fulltída þá barned er, syninum kiósa sæmdar rád, so jafnræde feinge nád, leggia þar til **byte, blessan, bæn** og **dád.**

So eiga þaú med sama slag, ad siá um dætra ráda hag; allvel fer ad úng kvenns-nipt, óbernskum se manne gift: allmiklu er afloked þá aúde er skipt.

Enn med því ad elska manns, age, tilsión, veitíng hanns, hvorge tekur, ef hiálpar rád, af hædum kemur ei ofan á

láð; hæn forelldra best útvegar baurnum náð.

Eins og Job med offurinn fín, árnade nádar baurnum sín; úngum vodenn er náſtædur, ætíd ſkulu því fedur og mædur, adſtodar þeim óſka af gude er aullu rædur.

Fylgía þeſſare forelldra ſtiett, ſiurt ſkylldur, ſem eg hefe ſett: elſka, fooſtur, age joods, ad raadſtafa og bidia goods; ſvinner munu ei ſoddann taka ſier til mods.

Arfa ſinna egtapar, ei meiga hindra forelldrar, fyrer ſitt eiged gagn og glis, guds án boda og tilefnis; því baurninn kunna ad bída af því baga og ſlis.

Ef bogna kann ad breſta ſeym, og baurnen eiga ad veita þeim, med þídu gede og þauckum ber, ad þiggia þad fyrer hende er, ſo olle ei, þángad inn ſier ſmeyge óvilder.

Þeir ſem eiga þægeleg jód, þyker mier lucka mikel og góð; ſo gumnar rate ei giæfu rán, gude þacke ſitt barna lán; manndáduger munu þá fara mis vid ſmán.

Enn þar baurn eru óſtírelát, aúka faudur og módur grát, eins ſem Cain og Abſalon

salon, er þad forelldrum reynsla og tión; um brióstgiæde þá bidia verda bæde hión.

Einkum variz fedgin fín, fúl-egg giora úr baurnum sín; illa fer medan upp er fædt, eitt se med tilhallde klædt, enn arf-askipta o-jaufnude annad grætt.

Forsugann eg frátek nid; því fleire hogga þarf hann vid, helldur enn sú hlíona kind, sem hastyrdum ei slær í vind; verdskulldar sá vænna atlæte er varast synd.

Ef einhvor ber sig óskylldt blód, annars manns ad fóstra jód, ærenn vanda underbindz: er hann sæll sem vel þad vinnz; ad vísu trúe eg þess verde opt med virdíng minst.

Þar úngbarn nockur annast eitt, er Christo sú velgiord veitt: fóstrinn gange og fóstra þá, í forelldra stad, sem verda má: Josephs dæme Mariu manns, skulu minnaz á.

Aminne eg her einnen þann, sem ad ser tekur faudurlaúsann, víst má siá sig vel umkríng, hann vondt ei sýne guds vesl-líng, annars snýz haunum athaufn sín í óvyrdíng.

Ef eckiu-baurnum eykur stygd, ýfer hann gamla módur hrygd, hvorre hann

huggun hiet í stad, þá hennar sier til egta bad: víst mun haunum (ef vel skal fara) vandlifad.

Sama vanda brúdurin ber, sem barna manne faustnud er; þar hún eignaz adaltred, eignaz verdur kvíste med, so hvorutveggium sýna kunne sama ged.

Gódrar konu gliúpum nid, grimelegt er ad stugga vid, sem módur kærrar misser beid, mannskadenn er hiartsár neyd; guds þauck er þá grættu ad hugga, so gete þreyd.

Apa má ei únglínginn; ne ergia vid hann faudur sinn; eda ræna því sem barne bar, sú breitne full er ósæmdar; þó hafe so stiúpur heimskar giört og hardrádar.

Take hvør mark á siálfum sier, fyrer sitt barn, ef hann ætte kiør, hvilíkt vilde hiartalag, horfde ad því epter sinn dag; og munadarlaúsum mæle út helldur millde-plag.

Hvar sem so er háttur á, horfed er annad forelldrid frá, vandt er því sem epter er, (einkum ef sig samteinger) vid egta-persónu adra, so sem optlega sker.

Einu er þá aúga hætt (í ordskvidnum er þannen rædt) vid módurleysíng ef fader er

er fár, edur fauðurleyſinginn móðer ſmár;
valla er von að vandalaúſum verdi ſkár.

Stiúpforelldrar ſtrák-lynder, ſtórt á-mæle kaúpa ſier; enn fader vondur móð-urlaúſs manns, og móðer ſlæm fauður-leyſingians, með ſtærre ſkaum̃ hafa ſtyrf-enn dæme ſtrúthegrans.

Með rettu verdur ei baurnum bægt, burt frá ſkylldre forelldra rækt, á hvørn veg ſem afkvæminn, ættina eru tilkom-enn, líka þaú ſem laſtlega eru laúngetenn.

Annars laga-brot er bert, og baurnu-num ſtórlega órett giørt, ef forelldrarner fyrer ſín vaulld, fáráðlíngum verda kaulld: ſaklaús grís fyrer ſvína breytne ſeckiar giaulld.

Endaz verdur orda-ſpiall, á þad ſier-hvor barna-kall. Eylífur guð ſem allt gott má, alla ſaman ſtydie þá, að ala upp baurn, ſo edlíz faugnuð epterá!

Lifande guð ſem láne rædur, lúnar ſtyrke barna mædur; með úngum legge braúð á bord, bleſſiz hvað eitt fyrer hanns ord! **Fadernis** eg feſte nafn vid fræda ſpord.

# Barna-Regla.
## um þad, hvad þav eru skylldug forelldrunum.

Baurnunum bíd eg kvæde, þó brag-smíd verde sein: næm vilda eg her næde, nockre lærdóms grein, hvornen yngre og elldre, eiga ad stunda ged, fedra og mædra med.

Eg kann upp ad telia, Atta hlute her, og í sannleik samanvelia, sem baurnunum ber, vid forelldra frame ad hafa, frá úngdóme strax, og allt til andláts-dags.

Baurnunum ber ad unna, bæde faudur og módur, og kærleiks jaufnud kunna, kostur er þad gódur: edled aullum kynner, ad ei se betur enn giort, og góds se vilia verdt.

Fyrst áster ofan ad hníga, optast nær til góds; ef upp ei aptur stíga, ecke er vite góds; sá nidie er náturunnar, nídíngur og grey, sem forelldra elskar ei.

Sín í heidre hafa, hlióta erfíngiar, fedgin, aumu og afa, án forauckttunar,

af

af hug med hofde beru, hýru ávarpe, blygd, og beygdu knie.

Og þó ypparligre, ad aúd og nafnbót se, og stíre sællra sigre, sonur enn forelldre; fiórda bodord býdur, ad barned faudurinn, **heidre** í hvort eitt sinn.

J heidre Joseph hafde, hærdann faudur miog, svinnur sist vid tafde, ad sækia hann uppá veg; burt úr sæte sínu, Salomon kóngur geck, og módur fagnad seck.

Þá Moses máge kærum, mætte á breidre slód, liúfur laút hanns hærum: læred baurnen gód, forelldrum vyrdíng veita, virdta dæmenn slík, eru dýr og dygdarík.

**Ottenn** er hid **þridia**, eiga forelldrar, hann ad hvorium nidia, so hogvært ged og svar, fram̄ vid fedgin kome, fyrer saker þess, þaú hafa einn hærre sess.

Þaú standa í stóru umbode, hins sterka umvandarans; þad er vidsiár vode, ad virda ei skipun hanns; þeirra ord skulu agta allt eins baurnen fróm, sem yfervallds dýran̄ dóm.

Barn med hlýdne hlýtur, ad hugnaz forelldrum; síns þvi sierhvor nýtur, á

seinne tímunum: aúdsveipnen er allra, yp-
parlegasta dygd, sem varnar stríde og
stygd.

Hlýdeð barn að heita, heilla veg má
tiá: vinsællder kann veita, virdíngar titill
sá, þeim sem að því er kunnur, hann
þocknast forelldrum sín; aúdlegð á haunum
hrín.

Þó skal með því móte, maunnunum
hlídne tieð, að baurninn ecke brióte, boð-
orð guðs þar með, ne hnecke heiðre sínum,
og hylle vondra sið, so raskiz rettlæted.

Hitt er af dýrum dáðum, dygda baur-
nen hrein, taugrum forelldra ráðum, fylgi
í hvørre grein, so vel syner sem dætur, þá
sier að egta hag, leita, og luckuslag.

Hast og hirtíng strída (sem holldum vyr-
diz þúng) baurnunum ber að líða, bernsk
meðan eru og úng; því lucka og lífsins
vegur, líðíng agans er, sem æsku-vaum-
um ver.

Enn sem únga hygnar, alldur og reyn-
slan með, enn forelldrum hreysten hnignar,
og af hrumleik sturlaz geð, þeirra brek
umbera, baurn eru skylldug þá, enn lasta
ei ne lá.

Þó

Þó stórlynd steyppe bræde, á stygdarlaúsanu nid, sem breiskegt barna æde, beint skal uppteked: því vid þaú kappe kíta, ef kemur í skapraún heit, deilu eg vesta veit.

Eins og þaú umbáru, óvitsku og brek, vor á æsku árum, æde maurg og frek; eigum vier elle-keima, umbera med saun, ef forelldrum forlast kann.

Ef yferbodurum eigum, illum hlídne ad tiá, vid forelldra framar meigum, fíngur í gegnum siá: ord sá ei þeim lídur, alldrei bídur hann grid, þeim haunum þóttast vid.

Þá baurn eru búen ad mannaz, ber þeim forelldra sín, þrotna ad ala og annast. Er þad meiníng mín, ad herfyrer nidiar heite, hrumra ellestod. Þeir fylla hid

# fioorda bod.

Jacobs byr so breitte, vid biarglaúst faudur-hús, nógar vister veitte. og var til þessa fús; David forelldra flutte, fræsgur í Moabs land, þá hræddist heliar grand.

Dró hin ræktar ríka, Ruth fyrer Naemi, þó hefde ei fe ad flíka; flióded lifde á því, sem trúlynd tilaflade: traútt mun því-

Hvílík ást, hiá sonar-komnum siáz.

Sona og dætra er sóme, ad seiliz rækt til blóds; so opt í alldurdóme, óske forelldrum góds: Hví allar adrar skylldur, ecke hrífa þar, án guds adstodar.

Medan mál ei fáum, ne mannvit til bænar, fyrer æsku einskis gáum, óska oss forelldrar, allrar gæfu af gude; giora þad baurnum ber, þá himm í hrornan er.

Þá forelldra endaz æfe, orendt þeirra holid, nidiunum hygg eg hæfe, ad hylia í vígdre molld, med ærlegum umbúnade: ærlegt þetta stark, seinast þyggia þarf.

Frægstu forelldra syner, fedra grófu lík, þeir liúfu og líka hiner, lofaz velgiord slík: Isaach, Jacob, Joseph: Jesum einhvor bad, um leife, ad þióna þad.

Fóstra eg forauckttun banna, sem forelldra ganga í stad, baurn ad menta og manna, mun þeim vandlaúnad; mier sýnist so sem under, sama skilyrde, þesser því nær se.

Sex hluta fyrer saker, siálfskyllda hvílík, í vitund manna vaker, vidlaugest eru rík: **guds bod** frá eg hid fyrsta, og faungur heilræde, skrád í skriftinne.

Efft

Efst á aptara spialldе, er bífalníng sú, (sem herrann vill menn hallde, af hiarta og gódre trú) nærst hugnan og hylle, sem heyrer gude til, so forelldrar fáe skil.

Í logum Levitanna, líka sinnz þad skrád; og fyrer munn frómra manna, af fridarins anda nád, so sem siá má vída, í Salomons ordsqvidum, og Sírachs samnmælum.

Í Tobiæ miúku mále, má og hittaz þad; og so hiá Ste. Pále. Sierhvor hygge ad, gud og hanns elsku ande, af ást og líka magt, baurnum so hafa sagt:

Þú skalt vyrdíng veita, væna forelldrum þín, sem heidur þinn má heita, og hugnast aúgum mín; med ótta og undergefne, einnen hlídne tiá, enn alldrei ad forsmá.

Sýn þeim sinnis gæde, og í svaurum eingan hnióд; vid þaú haf þolenmæde; þar med verken góд, ad elle annmaurkum þeirra, alldrei hæda skalt, til góda hrumleik hallt.

Í elle skalt þaú annast, enn einga veita stygд, veik so vid meige kannast, væna þína dygd: gled þaú lífs, enn lidenn

enn legg í hvíldarstad; þad fint allt forskulldad.

Skaparinn því nærst skylldar, skepnur allar til, sem ei eru Edles tryllldar, ad afkvæmenn þaú skil, ynne þeim af eru komner; allt eins logenn klók, má nema í nátturu bók.

Heidner hafa þad líder, í hugvits lióse sed, vyrdt sú vel tilhlíder, ad vináttu bragd se tied, forelldrum, sem med fyrsta, fæda baurn í heim, og í ómegd þena þeim.

Annáll einn þad greiner, uppteiknadur í Róm, ad karl af klæks meine, kom þar under dóm; siautradann aulldúng átte, án næríngar braúds, svellta senn til daúds.

Dóttur átte hann eina, eigengift var flióð, kvenndygd hún bar hreina, hafde á brióste jód, hrygg feck hvorn dag leife, ad hvarfla í Prisund inn, á fund vid faudur sinn.

Umskygnd votta eg være, af vaukturum til sans, hvert átur eingar bære, inn til daúdamanns: lidu so lángar stunder, lifde karl á folld, og let ei hams ne holld.

Yfer-

Yfervalld undraſt þetta, og um ſíder haufdu, ſeima ſól, til fretta, og ſannleiks her um kraufdu; vard þá brúdur ad birta, á brióſte hefde ſprund, faudur ſinn fædt um ſtund.

Fliódeд feck þá æru, enn faderinn lífſins grid: hátt var hróſad kæru, og ad heidinganna ſid, bílæte tilbúed, ſo blife dæmed lióſt, ad karl ſaúg konu brióſt.

Ykt er ei ne loged, um art þá ſtorkurinn ber, ef fader hanns getur ei floged, ne fædu útvegad ſier, á bak þann laſna leggur, og lætur uppí hann ſtrá, ad næra hanns elle á.

Fugl þá fugle umbunar, fóſtur, er úngur þá; allt ofmiklu munar, ef menn þeſſ ecke gá, forelldra ſína ad foſtra, þar faúng eru baurnum lied, enn þreytter þurfa med.

Sudur í Sichel-ey ádur, (ſegia þok bækur frá) uppkom elldur brádur, í borg Cathana; fleſter vildu forda, fe og dýrgripum, burt úr brunanum.

Alldrada forelldra áttu, yngismenn þar tveir; dýrrar dygdar háttu, og dreingſkap ſýndu þeir: faudur og módur mottu,

meir

meir enn drupners skúr, og báru þaû bále úr.

Numu af nátturunne, nám þad heidíngiar: því lögmál brióſts í brunne, bió þeſſ jafnadar: óſkírdra ſú æra, oſſ til ſkañar ſnýſt, ef forelldrum ſinnum ſíſt.

Þá eru í **þridia** máta, þeir **velgiørningar**, ſem optaſt í tie láta, ærleger forelldrar, vid baurn á únga alldre; eiga þar koma á mót, fyr greind heidurs hót.

Tobias karl ſo kende, kærum arfa ſín: med liúfum hug og hende, hiúkradu módur þín, alla hennar æfe; og athuga þá neyd, er fordum fyrer þig leid.

Frómum forelldrum ſínum, ſem fullu laúna kann, og lærefedrum ſínum, ſinnz ſá eingenn mann; enn andenn ſeger: hid illa, óſanngiarnann nid, ſkule ei ſkiliaz vid.

Hid **fioorda** er baurnenn blídu, beſt her tillockar: er **fyrerheit guds hin friidu**, ſem farſælld trúlofar, frómum nid á folldu; forelldra því her, rækta rett ſem ber.

Lofan fylger faugur, fiórda bodorde sú: heill fær hlídenn mogur, hiet þvi gud í trú, á lande lifande manna, lang-gædur mune sá, ef ecke af þvi brá.

Ef sonur í heidre hefur, med hlídne fedgin sín, miskun gud haunum gefur, og gleimer ei í pín, hann mun lifa þvi leingur, lík á straffe fá, þó meige sig mis-siá.

Hegner gud hanns bænum; glede af baurnum fær; siód sier safnar vænum; signudum gude er kær; eins og ís fyrer sólu, afmáz synder hanns: blessaz só til sanns.

Þvi siálfur drottinn seger: ef setning geimer miñ, og hiarta þitt tilhneiger, ad hallda bodordinn; á þier allra hauda edla blessan hrín, lofud af munne mín.

Dæme bestu barna, bera her vitne um, sem forelldrum gegndu giarna, þaú giftuz heillunum: signader syner Noa, sem og Japhet tveir, blessuduz báder þeir.

Isaac aúdsveipnare, aullum baurnum var: þá fórnar ad alltare, ellde-videñ bar, líf-tión lída villde, let sier koma í baund, fús af faudurs haund.

Samson sig þegar gifte, sagdè forelldrum til; þecktiz þad hlutskipte, sem þeim var hellst í vil; Jacob mikils matte, módur rád og þel: og einnen Ismael.

Recabs sonar syner, sáligs faudurs rád (í einord alldrei liner) ei lietu forsmád: vildu vín ei drecka; því var af faudur þad, þeim frændum forbannad.

Þesser og þvíumlíker, þentu forelldra lund: því ødlinduſt aúdnuríker, óſka marga ſtund, fyrerheit drottins fyllaz faugur vid þá menn; ſo mun æ og ein̄.

Þad fimta er fram̄ má kńia, fyrerlátsamann nid, sagdar dáder ad drígia, dygd og fedgin vid: hootaner herrans eru, og hefnda stórra von, er stefna á styrfenn son.

Því herrans løg so hlióda, og hardar Mosis spár, Salomons sagner fródar, og Sírachs fræden̄ klár; sá faudurinn fyrerlítur, og forsugur vid móder, bann og bølvan er.

Drottenn siálfur seger: sú er álykt mín, eg vil sá daúda deye, sem diarft slær forelldra sín; hel skal her med gista,

hvor

hvor þeim rís á mót, med hatur bolv og blót.

Forelldrum sá er sínum, sæta ecke vill, skal mæta miklum pínum, mynníng hans er ill; so herrans fólk ei hlióte, af henne skaum̃ ne last, hann skal helgrýtaz.

Nidienn fólsku frekur, sem forelldrum eykur þrá, í dreyra siálfs síns sekur, sege til aller já; ef aúga hanns ad þeim hæder, af arnar úngum skal, hrem̃t úr heila sal.

Odæme illra vitna, opt hafa fram̃komed; bannfæríngar bytna, á balstírugum nid: Cain bródur-bane, bolvunar þad skeid, med fiandanum fyrstur reid.

Cham ad faudur kímde, kollsugur fyrer þad starf, frá blessan barn hans rýmde, bolvan tók í arf; ofmiog úrkyniuduz, Ophni og Phineas, daúdlegt feingu flas.

Absalons aller meiga, ódád hafa spurt; faudur sinn vilde feigann, og flæmde af ríke burt: ólucku aúmur kracke, umbun af spióte feck, á háre í eik þá hieck.

Adonia og giörde, uppreisn, bróder hans, drapz fyrer Salomons sverde; sá þad rettur lands: hvor med hlídne

eige, heidrar faudur sinn, þann buckar bødullinn.

Siötta í saugdu næme, sem fyrer baurnum stár: er JEsu dírsta dæme (dygda speigell klár) hanns heilagrar æsku, er hylltiz gud í senn, og einnen ysermenn.

Til kyrkiu forelldrum fylgde, og faudurs rækte villd, vitur vid þaú skyllde, á víshóms þeinkte suilld, kom til kennemañа, og kænlega spurde þá, ad guds orde ried gá.

Med fóstra og fríдre módur, ferdadist sídan heim; hlídenn og hiarta gódur, hugnadist líka þeim, óx ad alldre og vitsku: er þad barned sællt, sem so er sinnisdællt.

Þá sorglega sína módur, sá hañ krosse hiá, henne hiarta gódur, hugbót mællte þá, brúde bífalande, besta vine á haund, ádur enn uppgaf aund.

Slíkt skal hugenn hvetia, í hvorium frómum nid: forelldra eingu etia, utan gódu vid. Heidur er þessu ad hlída, enn hafna, bitur og rauñ, bølvan, bríxl, og skauñ.

Drotteñ dygder fiolge, dándis baurnum med; þeirra hiaurtun helge, so hlíded odlist

ødlist gied, og gledie helldur enn græte, góda forelldra sín! er þad ósken mín.

Mál er þulu ad þagna; þigge hyggenn jód. Ef hugleida hágleik sagna, her af gioraz fród. Bid eg ad Barna-Regla, braguriun heite minn. Nóg er sagt um sinn.

# Æsku-Bloom.

## Er kvæde, hlioodande um gudrækelega og prídelega hegdan úngdómsins.

Æskan kallaz æfeblóm, eins og morguntíme, ef hún ærleg finz og fróm, so frægd er ad, í sierhvorn stad, lífs hádege læt eg þad, lióda uefnt í ríme.

Vandfared er med vænánu grip, so virdar haunum ei spille: æskan hefur selegann svip, so er þad ræd, ei fyrer þrættfyrer margre se henne hrausun hætt, holldeð nema sig stille.

Ande guds hefur úngdóm frædt, med ágætasta næme; vilda eg þessu være sett, vort því her, hid besta er; athugum því



hvad

Hvad epter fer, ord og heilaug dæme. Æru og vísdóms upphaf er, ótte guds hinn hreine; aúdnu og heiller allar lier, á minn sann, gudhrædslan, sem án ad vera er eylíft bañ, aullum verdur ad meine.

Otte guds er aullum víst, edlaskart og crona, enn æskudómnum ecke síst, aflár síóds, mikels og góds. Reis þar heill af Jacobs jóds, ad Joseph gude nam þióna.

Því ámynner Salomon sæll, ad sierhvor midt í æsku, mynnaz skule dyggur og dæll, á drottenn þann, skaparann, í fyrstu giørde ad mynda mañ, mildur af siñe gæsku.

Og enn þó mege æskan fraum, áfús vera til kæte, leikótt bæde og lysteſaum; letre í, rád fyrer því, Salomon giører, og seger frí, soddan epterlæte.

Ungmenne (seger hann) gior þier gladt, í godu æsku-tóme, so aúgun fáer og sinned sadt, af sætre lyst, núna fyrst; ad giørdum þínum gá mun víst, gud á efstadóme.

Má því alldrei í glede ne glaúm, gleima hans vandløte; ne gefa so holldsins girndum taúm, ad guds ótte, ecke se, añars vegar í umgeingne: vær erum í vondu sæte.

Drottenn vor því ad oss á, vær offrum haunum því besta, af æsinne vorre; eitt

því

þvi má, æskan tiáz, hún er skást: ættum til þess liúfer liáz, ad láta ei viliañ bresta.

Frægrar æsku hid fyrsta skart, frá eg þetta hid eina, sem gott sær bæde miked og margt, med sier sært, gude kært, maunnum gott, og miog aúdlært; mun eg her kunna ad greina.

**Ef þu gud fyrer avgum hefur,** í aullu nædar toome; í athugaler se alldrei sefur; ákallar, hann sem bar; athugar hvad þitt upphaf var; og allur lífsins sóme.

Upphaf lífs og alldurs glas, og æfelok má jafna, vid folldar blóm og fagurt gras; folna senn, aller menn: til einkis er, þó ágirnden, aullu vilie safna.

Ahyggiu þinne ef þú kañt, uppá gud þinn fleygia, giorer þier um ekkert annt, í haunnum klár, von þín stár; blessadur muntu um aull þín ár, einnen farsæll deya.

Hvornen kann sá úngur er (ad nam David fretta) sinne breitne í heime her, haga vel? eg andsvar tel: ef orde guds med aúdmiúkt þel, epter vill sig retta.

Þó margt hvad hafe þier misunniz, á móte drottens ráde; ad lifer þú samt og

leidrettiz, liúft ſier kvad, herrann þad: fyrer bleſſadann Chriſti bænaſtad, bid þú ad gud þig náde.

Endurnſúng ſklædſtú, eins og níum manne, og ad drottne alhug ſnú, einúngis; þar í viſſ, ad hiálpa mun þier helgun Chriſts, frá haurdu ſynda banne.

Æſku regla er annnur ſú, ſem epter ſkyllde breita, úngdómur og einnen frú: illt ſamlag, natt ſem dag, fordaz, ſem ad ſleckar hag, enn ſelags góðra ad leita.

Hiá gaumlum maunnum giarnan ver, ſem geima ſtór hyggindi; og lát í eyrum loda þier, lífs ord hrein, og málsgrein, gudſpiallanna, er gledia bein, og gefa ſálum ynde.

Enn epterdæmen ill og liót, opt villa þann góda, og kitlande fýſnin ſliót, fordiarfar, þann ſem var, meinlaús, og án mótgiordar; meiſtarans ord ſo hlióda.

Son minn góde! (Salomon tier) ſiá til ei þig ville, dárleger menn, og drage ad ſier: því drusſlegt hiál, ſtráka tal, ſeger Páll med ſannleiks ſkial, ad ſidunum gódum ſpille.

Abra,

Abraham medan átte vist, hiá Ur í Chaldæa lande, med sínu fólke í liótre lyst, lifde þar, og heidenn var, af vilia drottins visse ei par, vafenn í synda grande.

Ef þadan ei sig hefde haft, hólpenn ecke være; Loth hefde einnen líke tapt, lopts af glód, hauns og jód, ef samlagaz hefde Sodoms þiód, og sied ei betra fære.

Ef komed hefde ei í Caiphæ sal, kior postulenn Petur; þeige hefde þad mannval, þrí-neitad, eg veit þad, sínum drottne, og sier bolvad, þar siálfur visse hann betur.

Hvor sem tekur tiaurunne á, tiltaukumál er eige, þó sig meige saurga sá, sæll er því, hvor sem frý, vielrædum vefz eingum í, á illra manna vege.

**Pridia** æsku-regla og ráð, raún-gott fyrer hinn únga, Sírach kenner soddann dáð, og sidugann hátt, **ad mæla fatt;** skadleg er og skrumsaum þrátt, skrafinna manna túnga.

Lát hinn gamla sína saugn, segia út í fyrstu; hinum únga hæfer þaugn; hún því er, skadlaús þier: þá eins ansa, ef þaurf giorer, þó í mále styttstu.

Lát sem heyrer furdufátt; fleipra ei allt

 sem

sem vissir; torfundenn er trygd og sátt; tala þú vart, enn ecke diarft; trúlynded, sú edla art, áſt og hylle ei misser.

Þo nefnt hafer þú um náúngann heyrt, nockud í slæmra lage, ser so beſt þad fáe eyrt, fólged og leynt, enn ecke greint; ef vid þá þaugn þier verdur ei meint, vilde eg þad med þier dæe.

Soddann trygd giorer samvitsku hægd. Sierlega er þó sliódum, þaugnen kostur, og þar med frægd; enn hvert á mót, er úngre snót, ósvinna, ef orda sliót, ofſraum lítſt hiá þiódum.

Þess er geted um Maríu mey, hún mællte alls fiórum sinnum; hennar optar hermt er ei, heilagt mál: þögul sál, ætte ad vera, enn orda-briál, ei hiá dándi-kvinnum.

Einnen þagde Elihu, yngſtur Jobs af vinum, medan þeir elldre tauldu trú, tiádum reck, er sat í seck, seinaſt fram̃ med sitt mál geck, so tók vid af hinum.

Æskudómsins **fioorda** frægd, og faugur hátta príde: **elldre mannnum alla hægd, æru og dygd, tiáa med blygd.** Virda þá, enn veita ei ſtygd. Vil því únger hlíde.

Heid-

Heidúrsverdug elle ár, erú þeim krynd med sóma; ad gamallra manna hin hvítu hár, haurkuſkerd enn æruverd. Þeir ſem helgra fylla ferd, fagrer í dygdum lióma.

Gud hefur ſkipad gráhærdann, gofga med lotníngu, og elle huígenn ad mikla mann, med miúkt vidmót, ord og hót; ellina haulldum ærubót, æſkunnar drottníngu.

Enn heidurinn ſá ſem hærdum ber, hygge ad madur og ſæta, í fiórum hlutum fylgenn er: (1) **Hanns faudur-rád ei ſeu ſmáð.** Roboam miſte lucku og lád, þá lítt þeſſ vilde gæta.

(2) **Umlííða ſkal hañs elle-breſt,** þó alldradann bernſklegt hende; ad haunum hæda er allra veſt, þann illſku dám hafa af Cham, ſem ſpotts af ſínum glóſum grám, gillda bølvan keñde.

(3) **Hugul ſkal haunum bliídne ſiind, og heilnæm undergefne;** med óſtrelæte ei má brýnd, ellin þiád, lyndis bráð. Iſaach feck þeſſ úngur gád, þad útvallda manns efne.

(4) **Er hid fioorða elleſtoð,** eigum þeim ad ſýna, hliódar þar um herrans

bod,

bod, og helgra flest, dæmenn best: Joseph faudur sinn matte mest, þá megnt nam húngur pína.

Er sú **fimta** æskument, sem úngur skyllde læra: þad er **Idne** og **handverk** hent, so hreiste nægd, líkamans hægd, neyte sín, og fáe frægd: fremd er slíkt og æra.

Letenn og ydiuleysed hefur, ljótlegt nafn og heite; hann á djøfuls svæfle sefur, sem því añ, vill og kann; vid lasta umbúníng liggur þann, ad leidur er andlits sveite.

Hinn má kallaz sóma sæll, í sínu erfide er gladur; dugnadarsamur og dyggur þræll, dygden hanns, víst til sanns, er signud bæde til sióar og lands, og sá er gæfu-madur.

Idiuleysed er andskotans, einka net og flæda, í gildru þeirre grúa manns, gat hann veidt, ad sier seydt: á sker þad David líka leidt, og liet hann á því flæda.

Sodomita sú var ein, svívirdíng hrópande, upp í himiniñ ecke sein, yferkom hefnd, so sem stefnd; hiá sie trúe eg audrum sú ein nefnd, synden daúdleg standi.

Heil-

Heilræde meiga þad heita saunn, sem Hieronymus kende: siá til, þín se í óda auñ, idnen hraúst, vor og haúst, so all-tíd frá þier erendislaúst, óvin þinn ad vende.

Siøtte æsku sómenn er: sig fleck-lavsann geima; í helgun eignast holld-sins ker, hvor og einn, mær og sveinn; sæll er sá í hug er hreinn, hann þarf sier ei feima.

Oflecku dum ydur ber, alsendis ad vera, so sem eg, drotteñ ydar, er, inner sá, sem kann og má; so ydur mege eg hvíla í hiá, med huggun og nád eylífa.

Herfyrer vilde af hreinne mey, holld-gan taka skæra, Christur; enn af konuñe ei: þad kurteist blóm, júngfrurdóm, hefur hann kært, og hiaurtun fróm, sem hrein-lífis kallaz æra.

Josephs dæme er júngfrúm hent, jafnt og sem únglíngum, þar þeim er opt med bleckíng bendt, ef bliúg eru ei, sveinn og mey, so þaú kunne ad segia nei, saúrugum áreitíngum.

Ydar á mille óhreinleik, alldrei skulud nefna, helldur skylldu hiaurtun smeik, sem heilaugum ber, postulenn tier: á hann sem

dríger

dríger hneixlaner, herrans bann mun stefna.

Ruben fyrer soddan synd, sæmd og blessan miste; ærde Sichem ásten blind, fyrer ósæmt vík, tapadiz lík; Ammons gyrnden ísst var svík, so ad hún heliu giste.

Vid brunanum lækníng besta er, bæn og aull sparneytne, og hæverskleg ad hegda sier; þvk herrans skær, aúgun glær, fá vel skodad siær og nær, fólgenn rád og breitne.

Fyrergefe oss faderinn gódur, (flester munu þad játa) ad vorrar æsku er veikur hródur; vid sál glettst, hefur vest, ó-hreiñt hold; þann úngdóms brest, aller megum vier gráta!

Enn úngdóms hlídne og æra þín, Ema-núel sæte, af bid eg máe ótugt mín! þirt æskublód, hreinse þiód, sem hvarflad hefur af helgre slód, í holdsins epterlæte.

Ande helge umsker þú, yferhúd vors hiarta; so únger og gamler æ og nú, æru þá, stunde á! grandvarer ad þeir girnist siá, guds ásiónu biarta.

Enda eg her med erenda són og æsku-reglur mínar; sex úngdóme sender Jón, sion-

sjónargler, þetta er, aullum þeim sem athafner, arta villa sínar.

Þeir ýngre skylldu idka þad, sem aulldrudum kunna bære; gott kemur alldrei ofseint ad; ilmur her, leingst vid er, sá er med fyrsta kemur í ker. Kvædet baurnen lære.

Sá er gáer, sanna kann, ef seint er, hreint er valla: má nú siá um manninn þann, sem mátar brag, játar hag, ferskrar æsku dróz vid dag, med dygd og blygd ósnialla.

Ef únger þeinktu, í æsku sád, ellin munde uppskera, sídur kreinctu sitt þá rád, enn seinna meir, reyna þeir: snogglega margur og snemma deyr, snotur er best ad vera.

Dírd og lof se drottne þeim, er dásemd veitte oss úngum; umbar margann æskukeym. Allan tíd, fyrr og síd, offriz haunum æran blíd, af engla og manna túngum!

# Vellðis-Vegur.

Kvæde um veg og vanda veralldlegra valldsmanna.

Herrar

Herrar í háu sæte, sem hofdíngs ráðum fríðum, stíra og stórre magt, gløggelega bid eg gæte, á gróda aullum tídum, er gud hefur siálfur sagt, fyrer Davids munn: þier dómendur sem heited, drottins orda leidréttíngar neyted; sæler erud ef soddan vitsku leited, med Salomons bæn, og løgunum epterbreited.

Siálfs þeckíng (eg sege) er sæmelegásta lyst, sem hegdan villu ver, ef gumnar á gledvedege, gá ad þessu sem fyrst, sem veitt og varnad er. Molldardupt eru menn af náttúrunne: meina eg þvi sier eingenn hrósa kunne; hugarinns líte hlióma í samvitskunne, híngad fædiz hvør med spillíngunne.

Adams allt afspreinge, einga manndygd ber, í sinne edlis art; tign þvi trúe eg einge, take af siálfum sier, nie heidur og hofdíngs skart. Ef konu son einn her kallaz audrum fremur, í kiorheill þeirre mannvirdíngu nemur, guds af nád sú gæfa og forprís kemur: þad geingur til sem hañs fyrerhyggia semur.

Cor-

Coronur keysaranna, kónga tign og magt, og hávañ herrastól, vegsemd villdis-manna, velldis sæte og agt, allstadar under sól, allsvalldande einvallds herraun lenar, aullum þeim er slíkt hnossgæte er fenad; um síder allt þad sígur til horns ei þenar, enn siálf hanns alldrei sguddóms magten rienar.

Andlega á þad víkia, ordenn ritníng-anna; talar so tignen hæst: fyrer mig fræer ríkia, yfer fólke og eignum manna; lofed um launden glæst. Hvorium drott-enn heill og sigurinn gefur; hardráda úr vaulldum nidurkefur, enn þolgóda í þeirra stad upphefur, þó af aullum reiknígskap-ar krefur.

Adrar áminningar einnen her ad huga. So spiallar speken hrein: heyre mier höfd-íngiar, sem hátt yfer adra stíga, og meta málagrein; dóms valld er af drottne ydur feinged; dyggelega mun epter verda geing-ed, af haunum, hvornin haundlad er vid meinged; hætt er ydur ef úrskurdina reinged.

Greinarmun ad giora, góds og ills í tóme, er heidur og hugvits frægd: úr skuggamálum skera, med skilarettum dóme,

þad kemur trygdar nægd: enn jafnframt fylgiz velsemd ad og vande, vorded hefur þad herrum opt ad grande, þeim sem átu ad stíra lid og lande, ef løgsaugn voru þeir illa medfarande.

Mun þvi miklu varda, ad megtar fólked hallde, í hugskots haundum sier, á traústum trygda qvarda, sem teiknadur húss á spiallde, þeim fyrer aúgum er; so røgsamlega rád sitt kunne ad mæla, vid reglu þá sem eingann einn mun tæla, og giøre hvorke gud nie menn ad kæla, gædinga helld eg reikna meige sæla.

Þvi sá er til sælu fæddur, sem sæmdiz her í heime, heidre og hárre magt; dygd so gódre gæddur, hann glæpiz ei á seime, ne veralldar volse og fragt; og lætur guds ord leidtoga sinn vera; lærer ad tala satt og gott ad giøra; med aúdmjúkt sanure ædre tign ad þera; úr aullum málum rettvíslega ad skera.

Fólks forniste slíkur, frægur verdur á jaurdu; enn gediast gude best; herrum helgum líkur, sem hug sinn litum vørdu, og hlutu mæta megt: sem Joseph, Moses, Josuam tel eg þridia, Jeptha, Gedeon, Baruch

Baruch, Manohæ nidia, Samuel, David, Salomon kunni ad bidia, og sig vid drottinns nád og sannleik stydia.

Hofdíngs madurinn hlýtur, ef hávegs prís vill ná, ad vanda valldstiórn sín; reiknaz nockru nýtur, sem nafnbót hafa má, dygda frægd er fín. Tign hanns hygg eg tvennt þad einkum hlíde, ad taka í fyrstu vakt á siálfs mannpríde, so meira hafe enn metord yfer líde; á magt er vísast annars líted ríde.

Aúdkeñdur á ad vera, yfervallds sómenn háe, af fleira enn dýrre dragt; álit ytre kiora, allliíted forsláe, ad teikna tignarmagt; herrar skulu sig heidursverda kynna, med hefdarríkum forprís dygda sinna, prísvar eru þær þriár sem eg vil ynna, í þeim er fólgen giorvaull stiórnen svinna.

Fyrsta foríngianna, og frægsta manndád er, ad hrædaz himna magt; þad oller aúdlegd manna, en illgiordunnum ver; (sem opt er ádur sagt) gioriz þar af gott og rólegt hiarta; gefur hugenn, rád og speke biarta; gædíngunum gedsamlega mun skarta, gudhrædslan; um brest þarf ecke ad kvarta.

Seger í signudu rite, Salomons and-inn mæte: ef víkur vondskan frá, fylk-ers frídu aúglite, med faugru dóms rett-læte, stodvaz stóll hanns þá. Fyrer Davids munn vor drottenn segiz snúa, ad dygdaríkum sem í lande búa, bídu aúglite þeim sem á hann trúa, þar hann hótar stolltum burt ad skúfa.

Grein sú gudhrædslunnar, get eg ad fegurst se, sem vex af vænstre rót, þegar ad rítarunnar, rækia guds mustere, og helgra manna mót: sem David gladur drottenn tilbidiande; þvi drígdiz med haun-um vitsku og spádóms ande; og Salomon medan sá vid villu grande; sama er skrif-ad um Hiskiam grátande.

Iþrótt yfervallds stietta, adra eg for-sicka nefne, sem holl se og hreinskilen, þá valldsmenn vitsku retta, í vanda hvoriu efne, hallda og hyggenden, sem dæme er Salomons Davids sonar hins vísa, drott-níng sunnlendsk speke hanns nam prísa, hofdingianna hugsoinnu aúglýsa, hagyr-kiumenn, og saugurnar áfhýsa.

Serlega vel þad sómer (Sírach þannen tier) þá herrar líds og lands, forsiáler

eru

eru og frómer: frægdernar aflar sier, hugvit hofdíngians: enn í því lande ecke er gott á báda, óvitenn sem fyrer hefur ad ráda, varla þarf þar vænta gódra náda, hiá vesslum mun þar harla fátt til ráda.

**Þridia** yfervallds æra, er **ad skrafa fátt**, (so hefur Sírach kendt) í hvoriu graũt ad heyra, og hvískur giora uppskátt, ecke er herrum hent, því heimskur er sá sem hiartad ber í munne, enn hyggenn geimer ord í vitsku grunne; sleppne máls ei slýtur af gódum brunne, fór þeim maurgum vel sem þegia kunne.

Af rædunne hefur mann heidur, ef hún er í einfalldleik, stillt og staudugleg; enn ordskár lídur er leidur. Hún lingva marg-ann sveik, og leidde á lasta veg: hneysa er ad hreifa leyndum saukum, þó heyrt hafe menn í rettum trygda maukum; hvepsinn eingenn hótz á gódum raukum; heilsmídernar snúa þá saman baukum.

**Hid fiorda** (þegar ad þegia, þetta er ei yfermanne) þá er **ræda rett**; og aull sín ord ad hneigia, epter fullum sanne, enn fordaz fals og prett: lígen er einn liótur æruslecktur, lands forgift, og

skadlegur fiſiſku hveckur; ſiandans var þad fyrſte og verſte hreckur; frómum mønnum alldrei verdur þeckur.

Hiartad hiá manns barka, af heidnum fordum var, málad meiſtaradóm, ſo ſkyllde æ meiga marka, mannlegt hugarfar, af hanns rædu og róm; Ariſtoteles úr ſo rede ſkera; ærlegum ſkal þad tvennt til ſinnis vera flærd og lýge fram ei ſiálfur bera, og falſkar túngur uppviſar ad giora.

Yfervallds ſtiſta ágæte, og ædſta príde tiez, hoogvært hiarta þel. Skartar líttelæte, á landsforíngium beſt, þó fleſtum fare þad vel: drottenn vor med dírdar breitne ſinne, dírdlegana tel eg her á minne, med orda tilteft einnen þar ad hlynne: ſá ypparſte ſkal þykiaz hvorium minne.

Dreiſſuga drottenn læckar, og drífur úr tignarſæte, hætt er bráupun ſú; hugſiúſana hæckar, hvorra líttelæte, hann lofar líkn og trú. Fianden ſiálfur og Pharao kóngur ſucku; forſuger aller þeirra mynne drucku, uppbláſner vid aúdmiúkum ei hrucku, því ærugirnden tapar hvors eins lucku.

Dóm-

Dómara dygden siótta, er dádarikt bindynde, dryckiu darlegrar, og hooflega holld ad metta; þvi heilagt stoduglynde ei nær inne þar, ofneytslan ef yferráden hefur, allá koste manns hún nidurkefur, ráo og vit í rænuleyse vefur, rettsýnina under trauppum grefur.

Vei þeim sem ad svelger, [seger guds atqvæde] sterkann viela veig, þar til villta velger; þad volkar mannsins æde, og leider í lasta smeig. Vitskan seger: varist þier ad ecke, vited frá sier ydar kóngur drecke, og landsdómarar; so laga rettenn hnecke, eda litelmagnenn eingann málstad þecke.

Valldsmanns siöunda svinna, sem stórmaunnum hæfer, fridsemen er fræg; sæmeleg syster hinna; svælur yfergnæfer, liúf og lyndishæg; vine sina ættfærer hún alla; unnusta hennar má guds syne kalla, til óeyrdar sem alldrei mále halla, egnder verda þeir til heiptar varla.

Salomon seger: fridur, sannleikur og ágæte, sem þegnum þrátt hiúkrar, styrker betur og stydur, stórrikt kóngs hásæte, enn rígsett rettarfar; leifelegra er log-

sagnara, ad mýkia, enn láta hardúd yfer í dómum ríkia. Aullum ber í nád-arveg ad víkia; valldsmanninum má vid fodur líkia.

Agirnd eiga ad hata, adilar rett-indanna, í áttundu grein; med faul-skum fiár ábata, flá sinn aúmann granna, ecke er æra nein: því gíruger, bæde gud og menn þeir styggia, giora sier mein og samvitskuna hryggia. Dómurum lands, og dírdlegum ríkis tiggia, drottenn bann-ar fe-mútur ad þiggia.

Því aúdurinn stodar eige, ef af mann-dygd er, hiartans hyrdsla tóm: á háum herradege heimtaz reiknings kver, og drott-enn nefner út dóm. Fegre er þá fridur í samvitskunne, enn fed sem brennur upp med veraulldinne. Abate stór er med gudhrædslunne, ad aller med sitt bíte næg-iast kunne.

Lofstír landsforusta, læt eg níunda heita, so fordist skadlegt skrum, alldrig ad hlyska, enn epter sídur leita, fregn hiá frettberum: því flester þeir sem falskann róg samhylltu, ad fornu og nú heitum, sínum, spilltu, siálfa sig

frá

frá sannleikanum villtu; enn saklaús feck af vodalega biltu.

Fleppenn flærdar túnga, af fiandanum kitlud er, ad sturla fagrann frid; skaudsum út kann únga; í ónád stófnar sier, þó hyllist hennar sid: því eyru sín sá ófmiog nidurníder, aúdtrúa sá rógburdinum hlíder, á Rugguftaudum ruskaz vid misklíder, og ratar kannske bolvan fyrer um síder.

Saurgadiz Saul því fordum, saklaúsum á dreyra, hinns klára kennedóms, ad tál=hlídenn trúde ordum, og terrte ad rógnum eyra, Doegs dreings ófróms. Fleire dæme fáz, enn eitt má duga. Frómer herrar skylldu vel athuga, í munn þar kome ei meinleg eiturfluga, sem margann liet af sannleiks vege buga.

Dygda diásned biarta, med dírlegum perlum níu, her meiga herrar siá, sem betur í brióste skarta, enn blómleger steinar tíu, í coronu kolle á; því hvad stodar vondann hofdíngs nafn þó bere, og Herodem, þó glóade í ormaskere: siúku lióne er sælle lista here; syndarar liggia under einu pere.

Annad athuga efne, er embættesins skylldu, ad giora í gódre trú; tvenna til eg nefne, er tignarmenn uppfylltu, ærleger ádur og nú; sú fyrsta og hellsta er hofdíngs regla í lande, **hreina dýrkan guds ad se styrkiande.** Ezechias var ádur so giorande, aptrad feck því margra sálargrande.

J kyrkiu Christs ad þena, þó kóngs hafe eige magt, til er trúad þeim: stiórn og styrk ad lena; og sterka taka vakt, á logmáls taublum tveim. Moses siálfur mátte ei guds aurk bera, ne matar fórn med sinne hende skera; af vauldu slekte vígia liet til þess Sera, vilde ei David neitt ad offrum giora.

Sóma embættum settum, saman má ei sleingia: því gud yfer aullum er: blessar hann bádum stettum; bann er ad vilia reingia, skaparans skickaner. Svívirdíng var þad Saul, enn eingen æra, þá siálfur giorde ilm fyrer gude ad færa; af Usiæ dæme líka má þad læra, sem líkþrár vard, þá ofdirfd giorde stæra.

Veralldlegt valld skal unna, veita kennemaunnum; og forsorgun þeim fá; bevara

bevara bóka runna, fyrer bana og vond=um graunnum, enn villu víkia frá: so andlega kyrkiu orduna þeir hallde, sem er tilsett í fyrra Mosis spiallde: og loga mege liós í herrans tiallde, landsfedraña under skyskiufallde.

Hirdstiórum ber ad hlída, helgre líds=kenníng, og guds síns geima løg; strauf=funar lectiur líða; og lofa vidretting. Her til má þad miøg, Theodosii tignar dæme hvetia, vid tiptunarmann ei vilde kappe etia, er keysarann giørde af kyrkiu út ad setia; kraúp fyrer Nathan David voldug hetia.

Eins og ádur fordum, áttu kóngar ad vera, ad skickun skaparans, lesner í log=máls ordum, so lærdu vel ad giora, vid gud, og líde lands. Josua sier þad liet í eyrum loda, því lifde hann frý vid aull=um sálar-voda. Helga skipan hætta er yf=ertroda, herrum gagn er Mosis reglu ad skoda.

Aunnur skylldu idia, sem yfervallde ber, reikna eg rettindin, til sigurs og sæmda ad stydia; sómalegra þad fer, enn ríke rángindinn. Hún justitia er jafnad=

argiaurn í málum, iátar alldrig yfervarps blóma hálum, hrausun fordar hofdíngianna sálum, hvad eitt vegur gloggt í metaskálum.

Mundangurinn metur, málminn allann jafndýrt, ef hofginn hallt ei fer: rettvís sier þad setur, semia atkvæde skírt, þó menn seu misiafner. Sólen dreifer sama hita og skyne, ad svaurtum leir sem raúda gulle og tine; í máls úrskurdum má ei gá ad kine; vid misgunstiga haundla eins og vine.

Laganna formenn fríder, med friálsu guder heita, og syner sannleikans; þeim af hiarta hlíder, heilags rettar leita, ad dyrdar dæme hans, sem ædstur situr í einvallds tignar sæte, allt dæmande med nád og rettlæte: meina eg tvennt þad mála loken bæte, enn misklíder og áfríur uppræte.

Rádinn ritnínganna, retturinn framar enn magt, vilia ad vidgangiz, og inntak eidspiallanna, sem út hafa guder lagt, er æra ad uppfylliz. Drottenn sagde: dæmed rett med sanne; dugnad veited nidurþrycktum manne; áflagaboren ecki ei

mæte

mæte banne; ydar lid vil eg faudurleyſíng-
iar kanne.

Juda jofur hinn fróme, Joſaphat keñde
þad, fyrmeir forvitrum: ydar dírum dóme,
drottenn gáer ad; þier ſæted ſannindum,
er guds logmál ydur ber ad tæta; af því
meiged þier vel ad ydar gæta; med áfelle
ei aűmíngiana græta, ne órádvandann
vegna fiár rettlæta.

A ſama Skrach minner: ſon minn hlíd
þú á, frañburd fátæks manns, medur
miúku ſinne; og meining þína tiá, fyrer
utan ædru og ſtans; fárádum í faudur-
ſtad ſkaltu ganga; frelſa þann ſem offókn
lídur ranga; eckiuna láttu forſvar hiá þier
fanga, farſæll verdur þú þá dagana langa.

Hirdarar lands og lída-laga-ſtiórnend-
ur kallaz, holler, helſt fyrer þad, adſtod
þeir eiga þlda, þeim ſem á vill hallaz,
ad ſýna í ſierhvorn ſtad. J heidendóme her-
rar giordu þetta, hiálpudu þeim ſaklaúſu til
retta; þeſſ minne máttar meine vildu letta.
Þá mann-dád láte herrar um ſig fretta.

Þeir megtugu ecke meiga, meir enn
log tilſtanda, of-þiá almúgann; enn því
ſem yfervaulld eiga, epter rettum vanda,
ſvare

svare sierhvor mann. Lofdum ber ad láta sier þad nægia, enn lídenn ecke med járnoke ad plægia, fátæker undan frekum giaulldum æa: Pharaons tetur allar túngur rægia.

Mun þad minsta príde, hiá miskunsaumum audrum, ad reina á Roboams svar: aúma ad lemia líde, med logande eitur-naudrum, illrar ágirndar. Einge lifer af einusaman braúde, (ósediande girnd er sálar daúde) á fallvaulltum og fúagiaurnum aúde, sem ferz í senn, og heimurinn dygda-snaúde.

Allt sier leifaz láta, logunum þvert í móte, er herrans heidurs rán. Kreinker Christenn mjáta, sú keysara rettarbót, sem dictar Diocletian; þó Caravallds móder syne hid sama keñde, síst vil eg þad Christenn valldsmann hende; og Demetrius þá fridarbrefin brennde. Bæn hins aúma hafa á gott erende.

Illum eiga ad hegna, yfervallds herrarner, sem log tilstanda sterk: guds vandlætis vegna, þeim vegur feingenn er, ad straffa vondsleg verk; so underfólk hafe ótta af þeirra sverde, og almennelega frid-

ur

ur í laundum verde; eins og Jósúa Achan vidurgiorde: ætlad er til þeir-stráka hóp-enn skerde.

Logmál her ad herder: hvorvetna sá deye, er fiored forbraút sitt; vebandanna verder, vægia meiga þeim eige, og glæpe gefa qvitt. Sá sem þirmer saukudum vísvitande, í sannann voda stofnar módurlande; verda kann þad gódum opt ad grande, og giélldur (má ske) siálfur yferdómande.

Er þeim óráðvendne, og óleifelegt ad beygia, reglu rettlætis, sem guds ord hafa í hende, ef heidurs af þeir vege, reika ranglætis. Hlotnast, þar af hvad eitt audru verra; heiller þeim og undergefnum þverra; landed verdur lastfull hneixlis kerra, sem líf-augur votta flestra vondra herra.

Þar Sodomæ siále ríker: sez Gomorræ þegn, þad optast merkia má: ef hofuded Sundlenn sýker, senn mun harka og megn, limunum flosna frá. Hermed yfer þeim herrans reide blífur, sem hagar sier líkt, og vid gud trygder rífur: frá sier alla Drottens svikara drífur, dómarinn sá

sem

sem heiter, og er, eylífur.

Hótaner hanns þad segia: herrar rangláter, sem brióta bodord mín, og løg á lídum beygia, so lítelmagnarner, rænaz rette sín, þeir skulu mæta þúngu dóms áfelle; því trúe eg margur víkingurinn fielle, ad yfer þá geck sá úrskurdurinn hvelle, sem ofdramb þeirra lagde nidur ad velle.

Efe sína endtu, alldrei neiner vel, trátzuger tírannar; med lasta farme lendtu, og laugdu saman vid hel, sem inna annalar: hróplegt Pharaons hræ í sió kafnade; Herodes kvikur af maudkum forrotnade; Saul í strîde siálfur sier banade; ad svipter þeim var heiminum eingenn skade.

Jerobo, Achab ille, eitrud Jessabel, Joachim, Julian, firrtuz frægd og hylle; fyrer ofríke og viel, bidu bol og smán: því illþíde þetta átte í ráne og morde, allra laga þriótsku drygia þorde. Ofaurum slíkra og illra dæmum forde, einvalldsherrann gud med sínu orde!

Fridar faderinn gódur, fyrer sinn helgann anda, valldstiórn vande um heim! so af dygdum hafe hródur, og hygge ad

sínum

sínum vanda, eñ hófliga safne seim, og gud heidrande, gódann hlut framqvæme, grandvarlega yfer allra málum dæme, siálf-ra nafn med sanngirninne ræme; sidvan-der þá illu í burtu flæme.

Liúfer landsins fedur; sem loflega herr-ans Christne, á froone fóstred her, yd-ur se aúdnan medur! alldrei rated slísne! blíked blessader! sidsemd stýre siálfra ydar haugum! samvitskan hún fylge rettum lögum! sannleiks fridur sie á ydar daug-um! sveied ecke frá ydur þessum baugum.

Adur enn endaz þula, ydar bid eg sóma, ad kynnaz Christen lög; klárann capitula, sem kenner ad vanda doma, idked opt og miog. Þier ofdýrer þikiaz skulud víte, þaú drígia sem nafnbót ydar lýte; gudleg-ra herra girnist sid og býte. J gódu traúste þessu eg her vid hnýte.

Lesarar lýte á kvæde, og láte sem ad se í sannleik samstafad; þigge þaurf heilræde, þó ad sá aúmaste, hafe þeim hreitt á blad. Velldis-gilldann-Veg má brag-enn kalla; vil og skil eg til vid herra snialla, orda giörd á hægra veg ad halla, hírum stýrer gæda eg fel oss alla!

# Þegn-skyllda.

Hvad undergefnum ber ad sýna yfer-valldinu.

Yfervallds Þegnar ærleger, athugum giorla hvad oss ber; vier meigum ecke hafa ofhátt, so hyggium yfer vorn tillagdann mátt; í hollustu blífa hentar oss vel, med heidre og sátt.

Ædre menn hefur gud yfer oss sett, er vier kóngsvallds nefnum stett; sverded er feinged henne í haund, ad hepta ósid og mál dæma vaund, orda sú heldur sig aúst-ur og sudur um aull laund.

Þenare guds er þesse valldstett, þeim ad hlífa sem giora rett, enn ógna og hegna illvirkium, ódáder hreinsa ur saufnudum; og er sú skickan eitt af vors faudurs ást-verkum.

Er þad því ecke ad óvana sked, ad yf-ervauldum se magtin led: helger menn fordum háufdu yferrád, helldu sig samt þó vid guds nád. Kóngurinn kónga kóng-unum ler crónu og láð.

Og fyrst þad er skickun guds vors góð, ad gædíngar drottne yfer Christinne þiód, unn-

uñum heidurs hvorium sem ber. Herrar bera vandann tigninne med, úr hávum saudle er hættast fall, sem hafa menn síed.

Víkíngar hafa og valldstiórn haft, sem vondslega misbrúkudu sinn kraft; og má vid búaz ad mune enn so, því mannhópur skiptiz í flocka tvo: óbernskur þetta epter tídinne yfervo.

Í logmálinu hefur gud heitast vid, ad hrella á þann veg landsins grid: ad þiód sem hans bod ei þýdiz sín, þióna skule verda óvin sín, so þole hún under þeirra járn-oke þúnga pín.

Járnsprote þýder hid sama sá, er psálmur Davids annar stíngur uppá; stríker gud med haunum stórlyndann líd; storme þeim verdur lítt undanstýd; hellst er vid þessu hætt nú á efstu heimsins tíd.

Christur hefur spád um kiaur þaú haurd: kvalníng þióda mun siáz á jaurd, fyrer dómsdag. Sú draúm-þýdíng, sem Daniel giorde, hefur saumu meiníng: þad ytsta mun hardast einvallds ríke um alldar hríng.

Einn gud rædur því allsheriar, hvor upp verdur hafenn til valldstiórnar: kóng-

aríke eru í hende hañs;[1] og hiarta líka
siálfs rettarans; og þeirra sem hann hylla:
því so hlióda orden sannleikans.

Aull þesse (seger gud) eg hefe laund, í
lagt Nebuchadnezars haund; hirtíngar
vondur minn Assur er, þó ógedfelldur se
siálfum mier, í bræde kann eg bucka med
haunum balldenn laudsher.

Sannade Christur ad soddan er ei skrum,
í samtale sínu vid Pilatum: eckert valld
þitt er yfer mier, nema ofan være þad
giefed þier; eingenn tekur upphefd neina
af siálfum sier.

Hvort sem landstiórn er liúf eda straúng,
látum oss ei kalla þad skipte raúng: hiúk-
ar oss gud, ef hóglyndt er valld, enn haurd-
ug eru vort synda gialld. Aull yferdrott-
nan illsku á ad vera apturhalld.

Ef vier erum frómer, ei þurfum þad,
óttast sem hegnara í nockrum stad; því
sett er þad gódum til sæmdar og hóls, so
menn nióte þess verndar skióls: vier eigum
þad ei under aufugu falle aúdnu bóls.

Med þauckum eigum vier ad þiggia slíkt,
þá yfervallded er dygdaríkt, fóstrande
lídinn med frýheitum, fridar sanngirne

og

og rettindum; lík̄n þeſſa vid gud ad láta áſannaz med loſſꜳ́ngunni.

Því gott miſſer margur fyrer glæpinn þann, hann gofgar ei, ſem hæfer, veitarann; og óverdugann ſig áſannar, áſtverks ad nióta ſem lánad var: verdur hann niótande vináttu guds ſem hann vegſamar.

Enn ef menn fremia óſómann, óttaſt meiga þeir dómarann; fyrer haunum hiñ ſeke fridlaús er, forgefins hann ei ſverdid ber, í ſtraúngu umbode ſtrauffun leggur á ſtór=ſynder.

Opt ber þad til ad almúge lands, uppꜳ tendrar reide ſkaparans, og med ófride og illum ſid, agtar ei lögmál, enn rýfur grid: ſo miúklynda herra margur giorer ſier miög dællt vid.

Skipter þá um ſtafnbúa ſkaparinn ſæll, ſo ſkickaz í góds ſtad kroppur ódæll, ſem þýdu ſparar ei med oke ad þiá, óverdugur gelldur ſaklaús þá; enn vel kemur ſnarpur vonda hrygge vondur á.

Sannaz og þad hid ſignada ſkraf, ſem Salomon predikade fordum af: ſætinn dómaranna ſá eg uppá; ſiá, þad var eins og ranglætis krá, aurkudu þeir ſem þar órett lidu æpande þá.

Málefne fátækra mælt var ei bót, því megtuger stódu rettindum mót; soddan ofríke ærulaúst er, þad úrskurda guds ords málsgreiner; Micheas talar um mótlíkann hátt, þá siærlaga fer.

Hvad hofdíngianum er hellst í vil, þar hneigaz rángsleitner dómarar til, vonande aptur á hans vináttu hót: vollduger fylgia sinne hiartans rót, log beygiande, hvorium sem þad er bøl eda bót.

Þegar nú geingur þannen til, af þverbrotnum herrum fáz eingen skil, hneigsla sig beymar á harðhyge því; hvorge neinn fyrer alaugum frý. A dómstól og þínghól glæper vidgangast meir enn mí.

Uppsátur þetta ei undraz má, þó órettelega til meige gá: lídur gud margt þad hann leifer ei, því lagt er her vid forbod og vei. Þad geingur so til, sem þá geinaarinn blygdar gætslu mey.

Tignarmonnum er því til trúad, ád taka vakt á því sem er rettskickad: því er sem stele þeir siálfs úr haund, saklaúsum þá þeir vinna graund; hvar med þeir hróplega folkia og saúrga siálfs guds aund.

Sá úndergefne sem órettinn leid, fyrer ædstum drottne má klaga sína neyd, enn hvorke foragta herradóms stiett, nie hofdíngium stofna meingiord nie prett; þad stendur til guds ad stietta þeim ef stiórna órett.

Lídurinn má ei leggia neinn dóm, á lofdanna breytne, hvort vond er eda fróm: því undergefenn hefur þar ei umbod til; eru þad rettu guds løgskil. Óskipad setiaz í annars embætte er apa spil.

Þó láte sier hofdíngiar leifaz þad, sem landsins alþýdu er forbannad, og þó oss þegnum þyke þad strangt, þá er ómøguslegt ad kalla þad rangt; því margur hefur fyrer minne saker høggiz og haugt.

Hvør kann ad segia vid hilmer þad: hvad er þad gramur sem þú hefst ad? klerkdæme er herranna kennefader; enn kóngarner hafa gud yfer sier; reikníng standa af rádsmenskunne regentum ber.

Látum oss þarfyrer sýnt og sagt, ad sæta hliótum kónglegre magt, og láta þegnskylldu liúflega i tie, líka þó drottnarner hardráder sie; hvøriar jafnmargar hygg, sem ára þúsund í heims æfe.

J æru ad hallda yfermann, er
þad fyrsta þegnskylldann, sem koma
á fram af ootta og aast; hinn óædre skal
ad, tigninne dádst, med atvikum, hótum,
ordum og lotníng, til aúdmjúktar: tiáz.

Hins fiórda bodords þad fyllíng er,
fedrunum aullum heidurinn ber, David
fell fyrer Saul flatur á kne, og fleire so
giordu í lögmále: óvyrda bannar siklíngs
sæmd med siergæde.

Aunnur þegnskyllda hermiz her,
hlíidnen sem aullum gedfelld er. Und-
ergeckz skattskrift Augusti, aull veraulld
þo hún være ný; óalen̄ var ei fyrer þvi
bode frelsarinn frý.

Undergefnum í allann stad, ydur ber
ad vera (postulenn kvad) mannlegre skick-
an: meiníng sú er, miúklæte þad guds
vegna sker, kónginum fyrst, og audrum
sem hann býdur út af sier.

Enn ef þier skipar yfervalld, þad al-
máttugs bannar bodorda spialld, gefdu ei
keysaranum gude hvad ber, gádu ad hvör
þar ædre er: framar skal hlída himna
kónge enn holldlegum her.

Herr-

Herrum tveim eingenn hugnast senn: hlídeð því gude frómer menn; heitara brennur hid helvítska bál, enn herranna steglur, eldur og stál; drottenn hefur valld ad dreckia í víte dádlaúsre sál.

Ofersetukonur þess Egyptska fróns, augtudu meir gud enn bodord Pharaons; þenurum Sauls vard þad líka vel, þordu ei prestmenn ad slá í hel, kongs bod ó- virdtu; kunne þad líka kær Daniel.

Var því innfleygt í vell heitann ón, vinum hans þremur í Babylon, hlýdne sýniudu herrum þar, heidne ad fremia sem gud bannar; prúder giordu so post- ular guds og píslarvottar.

Þesser hugsiudu aller eitt, ad óttast ei þá sem hollð fá deydt, helldur gud sinn; og hefur þeim þad, til heilla snúiz í ster- hvorium stad: veglegt lífsins virdta hnoss hafa víst haundlad.

Þegnskylldan sinn þridia tiez, þolenmæde sem umlídur brest: vallds- madur sá sem vandann ber, veiku manns hollde klæddur er, yfer kann haunum einnen siást, sem all-margann sker.

Ef fyrer ofrïke einhvor þión, af yfervallde verdur, og líde tión, hann má giora sier í hiarta kátt: hafa þad fordum guds viner átt. Er þad saklaúsum æra ad verda útleikenn grátt.

Sauls leid umsátur saklaús og klár, sonur Jessе i heil tíu ár; barmade sier guds fólk í Babilon; bíidlyndur Joseph vard Egyptskur þión; signudum Daniel sælldad var fyrer solltiñ leon.

Ef menn lída yfervallds ójausnud, á oss þad járn-ok leggur gud, undergefna ecke skedur þad órett; þó illa giore sá sem liek þann prett; ofríke hefur vor ædste drottenn ei tilsett.

Af gude kemur vor ólucka aull, (undantek eg synd og laganna spiaull); rett er vier umberum reide hans, sem ranglæte straffar brotlegs manns: álaugur vaxa, því æ drygiz mæler ósómans.

Finnz í annalum frá því sagt, ad Phoca tíranne hafde keysara magt; helgur mann klagade hart med grát, hvarfyrer gudleg majestat, hafed hefde þann heiptuga kropp í so hátt ysirlát.

An-

Anſade raudd haunum uppå þad, úr ôſýnelegum nockrum ſtad: ſlíkt være makleg málagiauld, Miklagards fólke fyrer lýte margfaulld, þeim ſkyllde ſthra ſá þverbrotnaſte í þeirre aulld.

Ef tkranne fýſiz þig til ad þiá, þó þier ſinne eingar ſaker hiá, gud villi þá reyna þolgæde þitt, hvort gefa vilt mótfall óvinum kvitt; fyrer grid þacka; og framvegis bidia um fullting ſitt.

Hvad ſem verdur ad vera í ſtad, viljugur ſkaltu bera þad; enn bakſpyrna ei mót broddunum: ſem bágræk dýr under klyfiunum, óþol vilia af ſier hrinda áburdum.

**Fioorda þegnanna ſkyllda** eg ſkil, er **ſkatta og tolla ad laata til**; Chriſtur ſo giorde, og kennde út af ſier: keyſara galldeð hvad keyſarans er; uppheldis ſíns því ei meiga þarfnaſt yferbodner.

Einnen þó frekara útheimt ſe, enn tilſtanda rettende, lúta verda þegnar í lægra halld, og láta þad til vid ædra valld; rangsleitne aull verdur ritud uppá guds reiknings ſpialld.

**Þenuſtan fimta þegnſkylldan** er, ſem þeir meiga ei undan ſkióta ſier; því

Gl:

almúganum þióna yfervaulld, opt setia fyrer hann laganna skiolld, kyrkiu eflande kennslu schóla, og Christen haulld.

Hraustustu Davids hetiur þriár, hans vegna vogudu sier lífs í fár, sækiande vatn úr Bethlehems brunn, budlúngs vildu dreypa á munn; frásaugn þessarar hlídne og þiónustu er þiódum kunn.

Siötta þegnskyllda, sú er her nefnd, ad sierhvor jaue drottne giorvalla hefnd, og yfervallde aullu ooske goods, enn ei take sier þess skickun til móds; þvi þesser sex puunctar áttu ad vera inntak óds.

J sendebrefe einu sancti Páls, so tekur ande guds til máls: eg vil fyrerbæner skule ske, skynsamlega í Christninne, í allre þaurf, enn einkum þó fyrer yfervallde.

Gudlegu vallde Jsrael af, ágætum Pharaone blessan gaf; med forme sama psálma=skállded, í sínum hefur bænum tilteked: gud gefe kooginum gæfu, viisdoom, og goodann frid!

Drottenn mun leggia líkn og lid, liúfum þegnum sem stunda frid; hiner sem bregda bundenne trú, Belials meiga vel nef=

naz hiú: því fallacia þá ſvikſaum ſaúrgar ſamlags frú.

Vondra þegna variz menn liót, vielavæme, og grimeleg hót: eingenn ſkal giora ſig ad Achitophel, (alldrei hafa drottens ſvik luckaſt vel), geck ſá í ſnauru ſem gram villde láta giſta hel.

Fordumz þann illa Simei ſid, ad ſvívirda og laſta yfervalldid; því bannad er fyrſt í bordordunum: bols ſkaltu ei árna gudunum; þeir þad giora, þurrt fara ei af þeim ſvikum.

Drygia ſkylde eingenn þad dioful̃s afbragd, er Doeg framde þad lÿgennar ſlagd, ad vinna þad fyrer vináttu og plóg, (víſt meiga ſaugu ſkæden koſta nóg) ad liggia í eyrum landsdómara med laſt og róg.

Andſkotans þeſſe umbods þÿ, opt koma herrum vanda í, og ſpilla þeirra liúfre lund; lygunum trúde margur um ſtund; því vard Saul, hann ſá ei vid þeim hælbits hund.

Þegn má ei reynaz þverbrotenn; því vard ſá Egyptſke bakarinn, heingdur, hann ad því uppvís vard, víſt þadan af alldrei beid ſitt bard. Onád kóngſens afhender maurgum æfeſkard. Aúm-

Aúmka þú gud minn þann bædra líd, ſem oked dregur á hvørre tíd, og umber ſtundum ólaug og rán, og af illum herrum pinting og ſmán! ofþreytaz lát alldrei ær legann underdán!

Gef oſſ þína nád og góda lund! ſo getum afþreyd þiáníngar ſtund, allt þar til Chriſtur endar vora pín, og afhender ríked fødur ſín; ſo einn gud ſie allt í aullum, hvørs alldrei æran dvín.

Þegnſkylldu nefne eg þáttenn brags, þó hann ſie ſtyrdur vegna ókends lags. Gud ſtyrke alla góda menn; gefe hinum nád ad leidrettaz ſenn! eg bid hagorda í veg færa aufugmælenn.

# Boonda-Bragur.

Um ſkylldu húsbændanna vid ſín hiú.

Hvør ſem girniſt húsbónda nafn ad bera, hlýtur ſiálfur nockud um ad vera: fleſter taka í fødur-arf, med formenſkuñe vanda og ſtarf, ſem þar til þarf; fordilld ſína framme verdur ad láta, ef fara ſkal allt í máta.

Ef ſtíremanne ſtiórnen bregdſt í boda, ſtadt er bæde ſkip og menn í voda: þok

er

er sá heppenn þad hefur lært, þeinkia um ad sier sie fært, og vel vid vært; vís er annars voveifiegur skade, og von á kuldabade.

Flester vilia forda sier frá villu, so frelsaz mege og gete sneidt hiá illu; enn sá þarf gá ad sinne stett, ad sitia kunne þar inne rett: því þúng og þiett, er rádsmenskan, og reikníng þarf ad standa, af regeríngar vanda.

Inne eg **tvennt** sem ad verdur ad geyma, eins og hallded sie um tvo stiórntaúma: **samvitska** er hid **fyrra** fróm, framkemur hún med sterkann róm, fyrer drottens dóm; **annad** er **mannord** ágætligt hiá mannum, sem ilmar af heidre saunnum.

Bregdz þeim ei sem ber sig þessu ad hallda, blessan guds og fridur um allder allda; í heime góda farnan fær; farsælld hans af aúdlegd grær, sem bú og bær; hiú og baurnen her af líka nióta, og hamíngiu alldrei þrióta.

Fyrer sióner vil eg setia her húsbændum, og sierhvorium sem eru í þeim vændum, hvornen þeim med heidre ber, hyggia ad því sem skylldugt er, og fallega fer;

góð-

gódvild so hiá gude og mønnum fáe, og gódum ordstír náe.

Enn þó þyke erilsamt ad búa, almenníngur má því fullvel trúa, hússtiórn er ein heidurs stiett, af himna gude fyrst innsett, med rentu og rett: Adam bónde í Eden bió hinn fyrste, ádurenn heiller miste.

A ærlega feingnu eiga menn sig ad næra: af Adams slisum meiga þad bændur læra, ecke er slíkt sem óttaz þann, ædsta gud sem blessa kann, yfer bú og rann; og vera til frids med hvad sem hvoreinn hlýtur; í himinenn kalla, ef þrýtur.

Herrann Christur húsfodur ried kalla, þann hæsta gud sem skapade veraulld alla; opt á dege einum geck, ut af sínum dírdar beck, og fólk sier feck, til verknadar í vín-gards forne díru, og virdum lofade híru.

Húsbændur þier heyred til og skoded, her er ei til setu ydur boded, fyrst þad drottenn fekst vid stiá, fotgangande um þad ad siá, sem þaurf var á; gaúmgæfnen því get eg ad bændum sæme, gott er epterdæme.

Agta

Agta skal mann ordu sinnar stiettar; af aullum vilia menn fá taulur rettar; Þvi skulu líder láta af sier, leida, Þad sem svikum ver, og sanngiarnt er. Ef skiptaviner ad skylldu sinne gæta, þá skapaz eingen þræta.

I hústaubluna horfed búmenn góder, af herrans munne so þier verded fróder, hvornen þeim sem helldur bú, hæfer ad breita í ást og trú, vid hlíded hiú; hvor þad nam til hagsmuna sier fære, hiner ýngre lære.

Segger vita ad sio eru vikudagar; so margt er þad búendunum hagar, vid lofleg hiú ad láta í tie, og líka þó þaú misziaufn sie, sem opt má ske: sierhvor einn mun sína byrde bera, enn sæmd er gott ad giora.

Hinne goodu huusfedur eiga ad unna: hiru og ást þo so tempra kunna, ad ei skal madurinn adhyllaz, ambátt sína so miog fast, hann líde last, fyrer óvidurkvæma afrækt konu sinnar, eñ eptterlæte hinnar.

Ferráda menn skulu fólk sitt ad sier hylla: enn flest verdur í gódu hófe ad stilla:

ærleg gunst med sóma og sid, semur ðfr-
leg bæar grid; og fagrann frid; hagar
vel þeim hlióta saman búa, ad hvor meige
ǫdrum trúa.

Abraham hann unne sínu meinge, Ele-
azar var hiá haunum vel og leinge; hund-
rads kom fyrer herrans sión, hofdínginn
med sína bón, fyrer siúkum þión; fræg
gaf Judith frelse þernu sinne: sestum slíkt
í minne.

Med hugkvæmne og heitum ástar þocka,
hiúinn fróm til góds er best ad locka, so
sem fródur Sírach tier: son minn gódur
hlíd þú mier, þad hrapan ver; vinnuman-
ninn verk-idenn og færann, vil eg þú haf-
er kærann.

**Hernærst eiga huusbændur ad veita, hiwunum vernd,** so nióte
þaú fríheita, epter løgum og landsins sid,
sem líder nefna heima-frid, og húsins
grid; í sauk ærlegre sinn frómañ þenara,
sæmd er ad forsvara.

J þá meiníng voru þenarar fordum,
og þernurnar sem sátu ad nedre bordum,
grid-menn nefnder; greiner rit, gamallra
sem form mannvit, sier færdu í nyt; hús-
bænd-

bændur áttu ad hallda fyrer þá ſvaurum, ef hreckia mættu paurum.

Samhliódar þad Sírachs heilum rád- um; ſon minn ef þú blífa vilt í nádum, byggvann mann ſem þiónar þier, vid þvi aullu ſem órett er, þú vernda og ver; heita má, ef hann er borenn aflaga, hafir þú þar af baga.

Búmañs reglu birte eg þá hina **þrídiu, hvar foolke ad hallda vel til ídiu;** erfidid heyrer einum þión, af tómlæte bæde hión, og hiú fá tión; med verknade ſá ſem vill ſig eingum hyllà, venz ad haga ſier illa.

Skaparinn ſiálfur og ſkepnur hans gior- vallar, í ſkickun þeirre blífa um allder all- ar, ſettre idíu helldur hvor; hvad er ann- ad mannſins fior, eda koſta kior, enn andlits ſveite, og einhvor dagleg mæda, eda med ſynd ad ſnæda?

Hermt er þad af heidnum keyſara einum; hellt hann þar til ſínum mat-bords ſvein- um, fidrilldanna ad fara á jagt, og flug- ur ad veida, hans af makt, var ſo tilſagt; hiegóma ſpil þad hollra þókte vera, helld- ur enn eckert giora.

**Matinn þurfa menn og líka kvinnur**, maklegur er hans hvor sem trúlega vinnur: náttúrunnar skaparinn skîr, skynlaúst vill ei svellte dýr, þá lurginn lýr, múllenn fordum mátte ei naúte veria, mat, þegar átte ad eria.

Matseliurnar meiga ei leingur hýma, máltídar þá líður fram ad tíma; hátta príde hentar vel, helst þeirre sem bakar miel, og býr til þiel: svaungur madur súrra býndz ei orda, þá seint er fared ad borda.

Hreina fædu á hvorium manne ad bera; hitt þyker mier ecke svarlegt vera, ef óheilnæmt er bored á bord; búrs má þetta kalla mord, og falskann ford; enn margt er þad sem mathákarner lasta, má þó ei útkasta.

Hiúkrunar má ei hinum frómu synia, hrumer þó af kranklteik verde ad stynia; góð aulmusa get eg ad er, gud ad hafa fyrer aúgum sier, þá adþreynger: líttstauddum ad lykia aptur sitt hiarta, mun lítt fyrer gude skarta.

**Fimta** trúe eg forráda monnum sæme, (finnaz þar til rauk og heilaug dæme)

strauf-

straußun leggia a strakskapinn, ef stirfenn giorꝫ þenarinn, eda heimsfur hvinn; hliota þeir slíkum hnæfil-yrde ad velia, og hart um fyrer þeim telia.

Sírach talar um soddan vonda præla, sem menn giora opt í verkum tæla: kiored er slíkum keiris hogg, kannske verde á þeim rogg, og umbot snogg: og er þá rádlegt ef þeir betrun játa, af ógn og haúrku ad láta.

Ei má bóndinn epter hæsta rette, endurgiallda misgiorder og prette; Lútherus so loflegur tier, létt-fallenn til stiornar er, sá ecke umber; ser því betur ad forlíkaꝫ vid meinge, enn fúla ecke leinge.

Ef vorer þenarar vid oss nockud brióta, og vægdar girnast sídar af oss nióta, gáum þess, á himnum hátt, herrann situr og tekur oss þrátt, í sína sátt; ad sampiónum þó fulltar eigum ræde, sýnum þolenmæde.

Hiá máttugum gude mannvirdíng er eige, (minner mig ad postulinn þetta sege), í hans aúglite er herra og præll, halldeñ jafn, sá rett var dæll, og reiknaꝫ sæll: hardbýlum hefur herrañ giort óþægia, sem hinum kunnu ei vægia.

Hæfer þvi ad hepta sína bræde, hlióda þannen Sirachs barna fræde; ólmur varg-ur, eins og lión, er illt ad vera vid sinn þión, eda verka hión: af ofstopanum angraz bæar fridur, og er þad verste sidur.

Húsbændanna helld eg skylldu siotta, hinn sitt meiga ecke um kapped pretta: verka laúna verdur er, vinnu-madur sá þiónar þier, og þrek afber; ecke er syndlaúst inne þvi ad hallda, sem út ber haunum ad giallda.

I Levitanna logbók má þad finna, lif-ande gud hann talar so til sinna: ei skalt draga under þig, ersidis laúnen vitanlig, og máttu mig, óttast, so ei ójaufnudinn sýner, ellegar heillum tíner.

Sancte Jacob seger i pistels spialle, svik þaú upp til eyrna drottens kalle, þá hiúid er sinne hiru rænt; hiávik þad þó þyke kæñt, hefur valla væñt, vidurnefne, i vitru Sirachs mále, þvi vona eg eingeñ briále.

Bróder þess sem bana veiter meinge, er bónde sá sem innehelldur leinge, kaúpe þess er vel til vann; vondt er ad bera ti-tel þann, fyrer menskann mann; hiñ

mun

mun (so sem hvor og einn má trúa) á herrans fialle búa.

I siøunda máta eg seinast greine í kvæde; siá verda um þad húsfedgininn bæde, til kyrkiunnar ad kome hiun; Christelega jatte trun: því sidsemd sú, er gude dírd, enn gódu folke æra; gott er ad vilia læra.

Vinnuhiúum valld hafa bændur eige, verk ad skipa neitt á drottens dege, ann- ad enn kyrkiu fara á fund; fagrann rækia sálarmund, um messu stund: ótte guds er upphaf bestu fræda, og andar mestu gæda.

Gudrækni á gott til fyrerheita, gagn er mest ad himnaríke ad leita; her til vilde eg hefde lyst, húsbændurner siálfer fyrst, ad kalla á Christ, á sunnudogum, og sitt fólk med sier teyma, enn sitia ecke heima.

Helger marger húsbændur so fordum, hausdu mestu virdt á drottens ordum; siálfur Abraham sig umskar, so allt karl- fólk er med haunum var, og þente þar; kóngs-madurinn med kæru folke trúde, og Cornelius hinn prúde.

Lutherus hann las í húse sínu; loflegt er ad fylgia dæme sínu. Barna fræde og bæner skal, bóklaús idka í sínum sal, og heilagt hial; get eg ad sá sem giorer þannig breita, má gódur bónde heita.

Lifande gud (sem láne rædur manna) lýte á alla naúdsyn búendanna, hvorra hann þecker hús og nausn! hiálpe hann þeim yfer salta dráusn, í sælu hausn! Christur ser yfer kotúngs raúner margar, kome hann oss til biargar!

Englar guds fyrer aullum voda hlífe! andinn helgur forde stygd og kífe! hann útvelie hiúin dygg, ad holl sie bæde og ærutrygg, enn ecke ibygg; og yfermenn þaú áster láte finna, enn umbere klæke hinna.

Bú-erfidinu blessan drottenn veite, bærelegur so verde andlits sveite! búksorg take bændum frá, brióstrúma hann giore þá, sem fenægd fá, aúmum monnum aulmusu so tære; af orde guds þad lære!

Ord mín sum ef ecke gediast braugnum; óska eg þeir dæme epter gaugnum; láte bibliu lesa sier, lýte á hvort ei samanber, þad sett er her: meina eg helst þad mig

vid

vid bændur sætta, og mun so deilan hætta.

Þrióta hlióta þesse vers ad sinne, þegnar fregne ósk frá **Snioosskaar** mynne; sendann kendann **Boonda brag**, brager hager ylke slag, so líke, í lag; húsens blessiz her med formenn snialler! og heidrum gud vorn aller.

# Huuskarla-Hagur.

Um dygd og hollustu, sem verkafólk er skylldugt sínum húsbændum.

Þó mier þrálega leidist, ad þylia mærdarskrá, eitt sinn eg til neydiz, í orda smidiu ad gá; hvorteitt hiúed mitt, heimtar kvæded sitt; konurnar helldur kætaz vid, þá kvolldvakan er stytt; best er ad bregda upp hliódum, ef betur líkar sliódum.

Nóg eru kímen kvæde, þá koma þaú frá mier; helld eg fegra fræde, þar frodsleikur ad er; því margur módur-son, mælir og líka kon, í háum schóla hef eg ei lært, herfyrer er ei von, jeg vite vel hvad hlíder; vorkinne þad líder!

Enn so þad eingen sege, satt, nie berie vid, ad vite ecke af vege, vil eg einn

gódann ſid, kenna hiúum her; hafed þid epter mier. Til fullrar eignar ſæ eg í haund, fagurt ſiónargler, hollum heimamaunum, og hírum kyrkiu graunnum.

Fyrſt ſkal fólke kynna, fagrann ſkaupunar rett: verknadur og vinna, var af gude tilſett; ádur enn Adam braút, idia nockud hlaút, þó án mædu lúalaúſt, laradiz ecke af þraút; enn nú er hinn ſúre ſveite, ſynda ſtraff og þreyte.

Ecke héfur eina rentu, idian haft hiá lýd: kaúplaúſt þrælar þentu, í þeirre fornu tíd, til erils uppfædder, adrer tilkeypter. Sudur hiá Tyrkium ſo er nú enn; ſama þannen ſker, anaúdar oked draga, alla ſína daga.

Hiner ſem hiru taka, heita frelſingiar, verda þó ad vaka, víſt um annernar: og eru þad heppen hiú, ſem heppnaſt mañdygd ſú, ad ſín vanda verkinn aull, vel med dygd og trú; Chriſtur kallar ſæla, þá koſtulegu þræla.

Þó heimurinn hreckia tryllde (hafa þad marger friett) virde í veſlu gillde, vinnumanna ſiett; dírden drottennleg dæmer á annann veg: fyrrer þorum ſiónum líted

og

og lágt, líkar haunum miog, hans eru hærre þánkar, helldur enn ged til ránkar.

Eru í guds aúglite, eingenn húsbónd-ans, munur, ad mínu vite, og minsta þenarans: því faderinn fyrer sinn krapt, fyrst hefur báda skapt; JESUS sídan (játum vier) jafnt fyrer bádum haft, þeg-ar sem þræll hann reiste, og þióder end-urleyste.

Audrum opt hafa þenad, ágætustu meñ, sem gud hefur lucku lenad, lifer sú minn-íng enn: Esther ambátt var, epter á crónu bar; úr þrældóms Joseph þiádur komz, þraút, til upphefdar: mínkun er ad min-ne, madur þó braúd sier vinne.

Einn sá er idiu háde, úngur Jacob fyrst, frægur ad forelldra ráde, fór í eina vist, hafde í hende staf, á haúdre beru svaf, hiet á gud, so haunum kom, himnum of-an af, vernd, og vard megande, vel í framande lande.

Hardbýlann þó hafde, húsbónda til sanns, sá med vielum vafde, og villte kaúpgialld hans, þolde hann skin og skúr, skart bar ei nie slúr, so geck nær í sio ár þrenn, samt var dyggur og trúr; því gediadist

gude

gude betur, enn gamla Labáns tetur.

Fer því vel med fyrsta, fyrer hinn únga mann, þegar vill sig vista, velie nátt-stad þann, sem fedgin fróm og hrein, fýsa á mey og svein: baurnunum því ad bygger hús, blessan drottens hrein, nærst gudlegum gædum, sem gefaz ofan af hædum.

Upptauk æ skal stofna, í ótta skaparans, enn áhyggian ætte ad sofna, under skióle hans: gack vid staf um stord, stydst vid drottens ord; hreppa muntu lífn og lid, líka nýann ford, þarmed gæfu gista, ef giører þú bæn med fyrsta.

Her nærst hiúen meiga, hugsa eitt og þrennt, húsbændur ad þeim eiga; og er þad saugur ment, ad vita vel hvad ber: villaz siónlaúser; mundu alldrei ad mann-spillaz, þó misboded se þier, af gude góds hvør nýtur, enn giaulld fyrer vond-sku hlýtur.

Ef ysermenn fær þú fróma, og fínnre náer vist, þackadu þennann sóma, þínum gude fyrst: í gofigs gard og sal, giftu sækia skal; af þeim læra margt gott má, mannvit og so tal; sá þaú vilkiaur virder, um velferd sína hirder. Enn

Enn ef hiüed hlýtur, húsfodur ómilld-ann, þiggur vanda og vítur, enn vilkar ógódann; þad er reynslu raún, edur rett-lát synda laún: þolinmæden þeinke eg best, þesse bere kaún; og bæn til drottens bæt-er, bol, sem manninn græter.

Hvort sem hæga edur styrda, húsbónd-enn ber lund, *yfermann attu ad vir-da*, um hiávistar stund; þad er skyllda þín; þecktu ráden mín: því postulinn hefur Páll þad keñdt, í pistels rædum sín, hinum heiller þrótne, ef heidran sýna ei drottne.

Hiá Malachiam so mæler, miskunar faderinn: þiónar þíder og dæler, þiera herra sinn. Agar af því brá, ambátt-innis há, sína matmódur Sarai, siet ó-virdte hiá, úr vænnre vist hún flýde, og var þad lítel prýde.

Strákar opt sig státa, stórlynder med sann, og segia sitt ei láta, svar vid nockurn mann; drambs þá dárlegu ment, diofull-inn hefur þeim keñdt. Haunum jockte hrokinn fyrst, hefur hann fleire breñdt; eins sá ei vill farast, ofstæked má varast.

Hinn minne madur skal stilla, munn

vid

vid húsbóndann; forakt fer haunum illa, og fors vid ædre mann: ef hvirsle er hærre tá, hitt fer betur uppá; siálf nátturan seger til þess, ad soddan ecke má, ofdramb eingann hæckar; aúdmýkt færre læckar.

Annad eingu sídur, avdsveipne eg tel; skylda er, skaparinn býdur, skartar á aullum vel; þó ei þenurum síst, þegar hid sama er víst, ad hiú vid bodum húsbóndans, hugliúflega snýz: enn teikn er á þriótsku þræle, þverúd og mótmæle.

Postulinn Páll í þremur, pistlum hefur þad kend't; sancte Petre semur, um saumu ad skrifa ment: fyrer utan agg og prett, skal undergefen stiett, hlýda sínum húsbændum, hefur þad gud tilsett, med svinnu og sidsemd góda, svarlegt ef þeir bióda.

Gediást gude saunnum, gofug þesse dygd, hugþæg hellstu monnum, heims um alla byggd; þeim þó þaurfust er, sem þenna mannkost ber; vid eingann nema andskotann, illa kemur hann sier, sem rád sitt vel kann vanda, med vidrádlegum anda.

Heilaug ritníng hæler, hollum þiónum

um tídt, og þeim út miked mæler, miskunar verdkaúp frídt: hundrads-hofdíngians, hird var so til sanns; sóktu ausnu svaralaúst, sveinar laúsnarans; kerin í Cana fylldu, kiorner í þá skylldu.

Blessad hnoss og háva, er hlýdnen rett kaullud, ædre enn alltaris gáfa, álýtur so gud; enn þrályndann þriót, þvert má her í mót, grálegann kalla gudnídíng, goda fremur hann blót, sem reiknaz galldra glæpur, giorníngur sá er dræpur.

**Þioonustan** er hid **þridia**, þaurf er aullum sú, hlióta hiúin ad idia, heimtar þetta bú; konst og þrótt til þarf, ad þreyta daglegt starf; fasteign þeirra frá eg ad sie, sem se taka ecke í arf, her med heill og æra, á handbiaurg sig ad næra.

Med vinnu verdur ad borga, verkmadurinn sitt braúd, hinum sem hann forsorga, og hafa þar til sinn aúd. Her med hugse drótt, ad heilsu og líkams þrótt; siálfur gud því lenar líf, enn lemstrar ei med sótt, ad firdar ei þess freiste, ad forsmá sína hreyste.

Enn hver sem erfidar eige, og í ómensku; leggz, sesur á sumar-dege, seinna meir

meir hann hrekz, út á vonarvol; veſæll kannar bol; ſo hefur vitur Salomon ſpád, ad ſár mune þeirra kvaul, ſem leidre lete únna, og látaz eckert kunna.

Þad fioorda af heima hiúe, heimter yfermann, þyker þarft í búe, og þad er hollustan, ſem tióne og vanſa ver; vitur og heilnæm er; af áſt og trú vid yfermann, aflaga hvad ſem fer, aptur í veg því víkur, vin ſinn alldrei ſvíkur.

Nabal illur átte, einn ſo hollann þión, er varla vita mátte, voda húſs nie tión: húsfrú hermde í ſtad, herfaur garde ad; því ſvídíngur hafde ſagt því nei, er ſonur Jeſſe bad; var því baue búenn, ef bætt hefde ecke, um frúün.

Svinnur Syrlands kappe, ſo fann heilſubót, var þad hellſt ad happe, haunnum þeute ſnot, komen af Iſraels ætt; um þad feck hún rædt, ad ſiáandinn munde í Samaria, ſiúkdóm hanns fá bætt; veinar ſaúgdu ei ſkada, ſig þo giorde haun bada.

Haufum vier her fyrer ſiónum, heilnæmi dæme tvenn, hvorſu af hollum þiónum, hliota yfermenn, bæde lucku og

lid,

lid, Ilka gódann frid: gud gæfe enn ad hefde hiú, ſo heidarlegann ſid! munde húſſtiórn hreſſaz, og hvorutveggiu bleſſaz.

Labans góts ſig grædde, gloggt á medan þad, Jacob frómur fædde, hanns fe og gætte ad; hins ſama vard og var, vitur Pothiphar, ad fylgde Joſephs verkſtiórn víſt, vaurtur aúdlegdar; urdu og fedgar ſríder, fullmegande um ſíder.

Gefz opt gæfa þannen, guds fyrer dygdug hiú; bleſſar búande manninn; og borgar holla trú, þiónum eptir-á, uppheſiande þá, ſo giftu frægre, groda fiár, og gofigum ordſtýr ná: Salomon þetta ſannar; ſierhvor frómur kannar.

Enn aúgna-þenarinn ille, er útaurmunar mein, vid húſbændur ſem hylle, hefur í eingre grein; miked er biargar bann, ad búa vid ótrúann: því alldrei er von hann ſite á ſier, ad ſyſkia einfalldann. Skade er ad þusſlegum þræle, og þó hann nockud kæle.

Fride fólkſins ſpiller, falſkur underdán; allskonar hrecke hyller, hvinnſku, lygd og rán: þó ſvaur hañs ſeu blíd, og ſýniz trúr vid líd, af ótta er þad enn eingre dygd;

uppkoma ſvik um ſíd: dylz fyrer, drottne einge, þó drage á tálar meinge.

Soddann þenare ſvikull, Ziba fordum het, var hann voda hvikull, vid Mephiboſeth; Judas lék af lyſt, lymſkur forried Chriſt: þad ódyggva þræla kyn, þeſſum vidlíkiz, ſem fara fraṁ því verra, enn forakta bod ſíns herra.

Þeinke nú þenarar frómer, og þarflig vinnuſlíód, ad fyrgreint **fernt** þeim ſómer, ef fáz ſkulu laúnin gód; **heidur** og **hlídnin** ſterk, hér med **dagleg verk**, heiter fiórda **hollustan**, hún er trú og merkt: Criſtur þegar oſſ þente, þeſſu aullu neṁte.

Heidur haṅ nam veita, og hlídne ædre ſtiett; umbar andlits ſveita, (aller hafa þad friett;) vóru ſvik til ſanns, ſíſt í muṅe hanns. Læred af mier [laúſnarinn qvad, liúfur, til ſierhvors manns] heilagt hugar ágæte, og hiartans lítelæte.

Er þad nú ei æra, ad idka þeſſa ment, liſa vid lund hógværa, fyrſt laúſnarinn hefur þad kenndt; um nádena vera ſo viſſ, vandra í fótſpor Chriſts, ad fiolſinnudum, þó vinne vel, vondur þyker hnyſſ, þar ſem

sem þegninn glade, er þeckur í alla stade.
Enn þó ærlega svinnu, undergefne og trú, virde ei menn, ne vinnu, vid sín skyldu-hiú; sá sem situr hátt, ser á lágt og smátt, umbuna mun alla dygd. Á fædíngar nátt, med blessudum blóma saunnum, hann birtiz smala monnum.
Guds son gódann hirder, glósar sig; því hann, underdán óvirder, alldrei trú-lyndann, vid vosc í vondre spior, þó verde ad skíla sier; á innra-manninum er þad skart, sem aúga drottens ser; madur-inn þenustu þiggur, enn þad ad meiníng hyggur.
Þá rettarinn reikníng helldur, og ran-sakar sín hiú, og ærlegum endurgelldur, epter dygd og trú, med ávarps sætum són, á sínum dyrdar trón, allsvolldigur so inna mun: eja góde þión! vel tókz vinnu smárre, í vegsemd sit nú hárre.
Enn þræll sem fe-pund falde, faugur nidur í jaurd, og andsvaur epter á valde, eigandanum haurd, vard fyrer herrans heipt, og haunum nidursteypt, í ytstu myrkra óp og vein; illa var þá keypt. Gud oss gódur forde, grímmu reidinnar orde!

 Her

Hier siá hiúinn illu, hvørs þaú ganga á mis, ef ráfa í vondre villu, viela og þrályndis, eru laut og leid, (loddarar take sneid) sem hallmæla sínum húsbændum, þó hafe þaú litla neyd: kemur þar opt sem kallar; kiaurum slíkra hallar.

Dád er best ad drígia, dæmenn elska gód; ódygd alla flýa, eins fyrer menn og flióд: ef einhvør afvega fer, aptur siáe ad sier; hrædist gud og hylliz menn, þad heillanna upphaf er, hepte haund og túngu, hrinde sinne þúngu.

Gud til styrke góda, grandvarlega ad siá! lære lítel-fróda, so leidrettíng meige fá! þeim sig misgá miog, mide á rettann veg! dándis fólk og dygdug hiú, drottne befel eg! nemur sá nockur fræde, sem nenner ad læra kvæde.

# Heyrenda-Liood.

Kvæde um guds orda rækt, prest-skylldur, og kyrkiu-hæverska, sem sausnudurinn er skyllduгur um vegna dýrdar gudlegs nafns.

Kyrkiu baurn mín komed gód, kenna vil eg ydur, vísindinn, svo verded fród. væñ-

Vænnre er aullum penínga siód, ótte guds og æruprÿddur sidur.

Læred ydar sóma ad siá, saúder guds þier heited: hirdarar eiga gloggt ad gá, so gódu haglende ei vïked frá: sælir erud ef soddan vitsku leited.

Læresveina laúsnarans, lýse eg ydur vera, og áheyrendur orda hans: æra er sierhvors Christens manns, námog skilníng nockurn med sier bera.

Hæsta guds erud heima-menn, hiú og bordsfólk líka; hvorium braúdbít hús-laugin, hæfde ad geima fyrr og enn, so virdt kome fyrer veitíng æruríka.

Hér nærst ydur herma vil, hvad hús-tablann mun greina: í þriá stade þaú skiptaz skil, sem skylldiz þier ad láta til, vid kyrkiu-prest, og kennínguna hreina.

Heilaug kyrkia á **heimtur tvær**, ad hóp Christenna beyma: sú **fyrre** ad **huus guds vitium var**; vera skal eingenn sóknar bær, á sunnudaugum ad site aller heima.

Logskil þesse herrans hús, heimter af aullum monnum. Ef hugurinn vor er her til fús, hefur gud medann umsión

búſſ; minne liggur magt á auðrum auñum.

Davið gude líkur í lund, liet það of ſier heyra, að ſín være óſkaſtund, ef haū næðe kyrkiu-ſund; eins og hann þaurf á eingu hefðe fleira.

Meſta glede mier er það (mælte hann auðru ſinne) nær einn vinur í nockrum ſtað, naúðſyn þá fær ámálgað: hverſ-um bræður að helgu drottins inne.

Ef til kyrkiu áttu ſkam̄t (ómak þitt er að minna) lát þier vera það tídt og tamt; trúe eg annars kveðe að ramt, ef lángt að komner leita preſta ſinna.

Enn ef laúng og líka ógreið, lýtz þier ferð til meſſu, hugurinn ber mann hálfa leið, hollde ei vorkinn ſlíka neyð; ſálar gagn lát ſitia fyrer í þeſſu.

Langa reiſu dýrdleg dró, drottníng ſuñ-an af fróne, lartiz hvorke á láð nie ſió; loſleg fýſn þar underbió, friðarins ſpekt að fá hiá Salomone.

Vandra giorðu vitríngar, verallðar langt úr aúſtre, til þeſſ liñſer lendtu þar, ſem lióſeð heims upprunneð var; tauldu ei ſpor, í trúnne geingu hraúſter.

Bleſſað þetta ómak er, að iðka kyrkiu ſína

sína; enn heima fastur á helgum ber, hróp-
legt teikn í enne sier: Gergesenus gæta
verdur svína.

Logleg tek eg forfaull frá, er finna af-
saukun retta; hittaz munu þaú harla fá,
ef heilsu brestur ei strider á, látum dul í
diorfúng oss ei pretta.

Annann rett eg reikna og tel, sem
rentar guds mustere, ad kyrkiu gaúnguna
kryode vel, komendur fyrer utan viel,
hreinhiartader hræsne ei med sier bere.

Þá erendis lokinn ei fáz gód, ónyt
telz sú reisa: ógunst drottins á sig hlód,
innan kyrkiu sá sem stód, fullur af dram-
be; fiell því yfer hann hueysa.

Guds hús helld eg gridastad, gott er
þar ad finnaz, skvalldurs laúst ad skiliaz
ad; enn skaum̃ er ad, geýsa út um hlad,
á helgum dogum, og hugméd á ad miñaz.

Vid fylgiara sína frelsarinn kvad, frid-
urinn sie med ydur! gydínga háttur því
er þad, þyckiur vekia í helgum stad; geý
og urr er grim̃ra hunda sidur.

Brullaúps sal eg blómlegann tel, bles-
sad messu inne; med fridar sattmála faug-
rum vel, fullgiorer þar Emanuel, hióna-

band med helgre Christne sinne.

Kyrkian er ein heilaug haull, í herrans nádar ríke; gerseme hennar eins eru aull, útmála fyrer oss brot og spioll, hins miña heims, sem meistara síns var líke.

Skírnar fontur og skrúde prests, skrifta dýrdlegt sæte; í kór er súnged Kyrie vers, kyrkiu múgurinn svarar til þess, Amen, [já] med andvaurpun og kæte.

Af hástól skedur hinn helge lestur; og hreinu á guds altare, braúd fat stár og bikarinn bestur, berger þar af Christi gestur, blessar prestur, enn bidur fyrer sier skare.

Gestabod eda gillde slíkt, ei gefz í kónga haullum, sem himneskum sie heidre vígt, hiartans sætt og blómaríkt: lof sie þeim er lena vill þetta aullum!

Sidseme er í hófum hent, hvorsu miklu fremur, í guds húse, þar gott er kenndt, so gleimiz ei sú himnesk ment? vel er þeim sier væna hegdan temur.

Liós þitt skína láttu þar, líder so þad siáe; heilagt sie þitt hugarfar, heilaug ord og giordernar, í heilaugum stad, so heidran gud þinn fáe.

Prest-

Prest-skylldur eg **fioorar** finn, framm sem nú skal setia: **keppstu ad hafa kennemanniñ, karañ eins og fódur þiñ**, til ovildar vid hann eckert lát þig hvetia.

**Heidur legðu haunum til**, herrans bodordꜱ vegna; þetta tveñt eg þig áskil, þrennum gude er slíkt í vil; embættesins ærn verdur ad gegna.

Ef holldlegur fader ad ofs á, ást og heidran bæde, sem kraúnk náttura er komen frá, og kiotlegt edle er býr ofs hiá; þó er sú skyllda skrifud og sett í fræde.

Nú má sálusorgarinn, sannur fader heita; fyrer hañs lestꝛurs laguadinn, lagaz endurfædingen; sonarleg atlot sómer haunum ad veita.

Náms-menn fordum nefnduz þrátt, nidiar guds spámanna, þar þeir haufdu í heidre og sátt, helga fedur og unnu dátt, eins er ad merkia á ordum postulanna.

Þá Eliseus sinn lávard leit, lyptaz hátt frá jaurdu, sín hann klæde sundursleit, sorgin fast á hiartad beit, **o miñ fader!** af angre mælte haurdu,

Sancte Páll í sín hefur bref, sett þá

glóſu vída: ſonakorn mín hvoria eg hef, hiartkæra fyrer utan ef, fædda eg ydur fyrer gudſpialled blída.

Hvor ſem fodurinn foragtar, med forſe og illum vilia, verdur ſá til vanſemdar, vondum mæler innſáfnar: um andlega fedur eins má þetta ſkilia.

Sama kenner Sírach þier: ſannann gud ſkalt óttaz; og hans preſta hafdu her, í heidre, ſo ſem ſkylldugt er; lærdóms ſtrauſſun lát þier alldrei þóttaz.

Sendemadur ſem brúdgumans bón, bar til feſtar-qvinnu, og vors áſtvinar er þarfur þión, þeſſ og hennar gediaz ſión, ſem til er ſendur; ef tekz haunum allt med ſvinnu.

Nú er ſáluſorgarinn, ſendemadur hins hæſta; ſá fridar engill faugnudinn, fer ad bióda hvort eitt ſinn, brefbere rettur brúdgumans tignar ſtærſta.

O! hvad fríder fiaullum á, fætur þeirra eru, ſem faugnud boda og fridenn tiá; fagurlega lýtz á þá, aund grátlegre í eymdardalſins veru.

Enn ſá ſem bref og ſendemann, ſíns konúngs óvirder, eda áſtvinar, hvad ſker hann? heiptaz þeir vid giorníng þann,

eñ

enn sannrænkngurinn sig vináttu firder.

David kóngur hefnde af heipt, á herrum Ammorita, hanns sem þióna haufdu sneipt, og heimskulega vid þá keypt; ad hafna gódu, enn her fyrer raúdu ad snýta.

Heiptug mun þá herrans magt, vid hvoria sem ecke sæta, hans þiónum, vid hvoria sagt, hefur hann so: ef menn foragt, veita ydur, verda skal mier ad mæta.

Mosis syster Maria, fyrer mótþróun haunum sýnda, veiktiz skiótt og vard líkþrá, vorkynntiz vid haurmúng þá. Fleire lesum vier presta hatara pýnda:

Guds mann nockrer gárúngar, gamlan nefndu skalla, Eliseum, enn ad so var, hgultannar komu þar, af drottins hende, og drápu þá gicke alla.

Her í mót so herrann tier: hvor prestmanne góda, ástar vidtekt aúdsýner, andleg laún úr býtum ber, enn guds ords þenara gagnlaúst er ad hnióda.

Þín skyllda vid þínga-prest, þridia er sú, eg inne, gior ei ad heim gianlldum frest, sem gud vill haunum tilleggez, vel haunum ei þad versta úr eigu þinne.

Guds

Guðs er skipan gaumul og ný, góður Páll ried inná: sá sem ordinu erfidar í, uppbere sína hiru af því: verka madur er verdur laúna sinna.

Leidtoge sá oss vísar veg, varnar tióne og faullum, stydur þá, sem stumra miog; stiórn hans þyker nytsamleg, farlama og framande monnum aullum.

Soddan leidsaugn lenade þier, lesare gudspiallanna; Christninnar hann aúga er; undan þier hann lióseð ber, góðs er verdugur greide fylgdar-manna.

Enn hvor af nógu naúmur er, og níd-sklega gelldur preste, tæpt útstykar tíund-er, treglega á hañs naúdsýn ser; af áln-um þess sier einhvor skamtar neste.

Fioorda skyllda sú vor sez, sem til eigum láta: sierhvor vid sinn sóknarprest, sege, þó hanns vite brest: hylia skal eg og hroopa í eingann mæta.

Aller erum vier alner í synd, einginn madur án lýta, vor edlis art frá æsku blind; á oss berum vier þessa mynd, eins presta-rner under serknum hvíta.

Guð hefur menn til synduga sett, sínum maukum ad kenna; um eingann haufum

vier

vier einn þad friett, ad alla hlute giorde rett: med skynsemd þarf ad skoda málstad þenna.

Einn kann segia: mier þad má, sem mín- um preste ad breyta; bernskur er eg haun- um hiá, ef hann illt lætur til sín siá, hvar- fyrer skal þá hlýdne hans ordum veita?

Ansa eg til þess: eingen er, afsaukun fyrer gude, ef rett þú veit enn rangt gio- rer, þó rasan prests þú áhorfer; bol er hiá haunum ad blífa í ófaugnude.

Pharisæanna (frelsarinn kvad) fylged ordum gódum, Mosis þá þeir standa í stad, enn strákskap þeirra ei hafiz ad. Illur Saul af anda spáde gódum.

Hvor sem ecke hneixlar sig, á hegdan annara manna, sæll er sá: eg sege fyrer mig, þó sie mín breytne órielig, í guds míns nafne glæpe eg aullum banna.

Enn so sem Noa syner tveir, sem og Japhet giordu, blygdan fodur síns byrg- du þeir; báder í stadenn meir og meir, blessader urdu, bæde af himne og jaurdu.

Þíns skrifta-fodurs skaltu eins, skýla misgiorninge, og bidia gud um bót þess meins; blessan Christi sendesveins, so bríne á þier á heimsins effsta þínge.

Guds

Guds ords kenníng helg og hrein, heimter skyldu þrenna: fyrst, ad eyru seu ei sein, at sæta ad hlíida lærdooms grein: tririn mun af tryggre heyrn uppsrenna.

Míner saúder (Messías tier) minne rauddu hlída; item hvor sem hefur her, heyrande eyru, lære af mier: med ordinu kemur andagiften frída.

Einn kann segia: eg vel kann, idka helgann lestur, þó kome eg ecke klerks í rann [kalla eg mier þad líted bann;] á eg nú bækur eingu sídur enn prestur.

Her til svaraz: heilagt mál, er heyrt, enn lesed skýrra; nær mun ganga gede og sál; í guds ordum er eckert tál: finnz til dæme fornt, og annad nýrra.

Blálendskur af lestre lítt, lærde í kerru sinne, enn sem heyra feck hann frídt, Philippi máltæke nýtt, trúadur vard, og tók vid vatns skírninne.

Í annañ máta er þier skylldt, ord-id guds ad læra, ef þinn gud giorla þeckia vilt, so þrennann fáer ad þier hyllt; hvar af þín er heill og eylíf æra.

Hvor sem geimer guds síns ord, grand-

ar haunúm ei daúde; sá er frý vid sálar mord; situr æ vid drottens bord, í lióse skæru, og lifer á himna braúde.

Móder drottens geimde góð, gudspialls ord í hiarta, eignadiz hún þar sætann sióð, samanbar þaú og var því fróð; blóme sá mun best fyrer drottne skarta.

Hid **þridia** heimter kenníng klár, af Christnu aullu meinge; **ad sierhvor breyte sííd og ár**, so sem í **guds orde skar**, liggur þar vid laúsnarans vinfeinge.

Hinn helge Jacob hefur so sagt: heyrarar skulud ei vera, ordsens, sem fyrer ydur er lagt, einúngis; því stærre magt, liggur á því þier læred vel ad giora.

Kenne ydur þessa gloggt ad gá, gudsdóms sætur ande, og verke med ydur vitsku þá, vilia guds ad stunda uppá, so ydur hvorke synd nie plága grande!

Sende eg greindann sida ód, sóknarfólke mínu; þad **heyrenda** heite **lióod**; her af menn sier drage í sióð, hæde fræde, og bót á ráde sínu.

# Klerka-Titta.

Um þad hvornen prestarner skule vanda sitt framferde, lærdóm og lifnad.

Kærer brædur, heyred hreina, hl. anda áminníng, sem eg vil tiá, med hvorre giora hann vill eina, hiaurtum vorum uppvakníng, og lærdóm liá; hvernen þeir sem liós og lykla, lífsins bera, og umbod Christs, ábyrgd hafe meira enn mikla, meige þvi gá síns embættis.

Rádsmadur hvor þarf vel ad vanda, verkstiórn alla, og sína umsión, í settum stad; so reikníng kunne rettann standa, og reyniz trúr síns herra þión, þá hugad er ad: heidur og umbun hvoreinn þiggur, af hæstum gude, er þetta tekst; enn svikarans líf og sæmd vid liggur, sá í kvaler burtu hrekz.

Overdugann og all lítt fródann, eg medkenne veikleik minn, um vandt ad tiá; þarfyrer bid eg gud min gódann, ad gefa her til anda sinn af himne há, mier og ydur brædur blíder, ad besta

ium ætu og trygd; so sáum laún og frægd um síder, sinnumz glader í himna bygd.

Sancti Páls í sendebrefum, er sidaform eins kennemañs fyrer sióner sett; ef þeim speigle gaúm ad gefum, og gloggre meining postulans, þá rautum vier rett, beinleide, sem gott er ad ganga, guds og manna vinfeingis, enn villumz ecke um vegu ranga; veite oss drottenn nád til þess!

Ef girniz nockur guds safnadar, gætslu ad hafa, allgott verk sá underbindz; til aúdrar sóknar, ellegar stadar, óvígdum því rett er klerk, sem rêlegur sinnz, ad bióda sig, og þar ad þióna; þó án kapps og mútu siár: því hvors. manns happ og heilla cróna, í hende og forsiá drottins stár.

Helgrar kyrkiu hyrder einum, hæfer ad vera fyrer utan last, og hrekia hád, án hneckingar æru hreinum; so á hann meige ei bevísaz, nein dock ódád. merkrar trúar mælebræde, myndadur epter vera skal hañs, lærdómur

og lifnadur bæde; losstÿr er þad kennemanns.

Aúga fullt af óklárendum, annara fleckan hvorke kann, ne siálfs ad siá; ef autud er hondin í saúrindum, ei hreinsar hún vaurgugann, þad merkia má; se kámadur klerkur af lÿtum, klæker blinda hyggiu-rann, so gáer ei vid vondsku og vÿtum, vernda sig og neinn annann.

Sá sem góda sidu keñde, siálfs þó nidur hegdan laút, til hneixlunar; hvad med klárre hægre hende, hreste hann vid, þad vinstre braút, sú vaurgug var: hverfu-steine hann er líkur, hvor sier ender, enn skerper stál, audrum þenar enn sig svíkur, Esau hond med Jacobs mál.

Eins og þeir sem aurk fyrer Noa, uppsmídudu, þentu audrum med hagleiks hind, enn drucknudu midt í diúpum flóa; því drottens sættu ei heilrædum, so sæu vid synd: líkt er slíkum liósberendum, (lesed hefe eg einnen þad) vid

vid vaurdur þær sem vegfarendum, vísa leid enn standa í stad.

Vígt og helgad vatn med orde, vegleg er þeim skírnar lind, sem þar í þvoz, trúndum hygg eg taupun forde, tekur daúda úr erfda synd, þann illa ókost. Stundu sídar steipiz nidur, stráfleikenn ef presturinn er; þó marg-ra sie hann mála smidur, meigenn for-agt steyper sier.

Eigengiftur einnre kvinnu, and-legur skal vera mann; þad lækning lier, ef hann ei med síd og svinnu, sitt hreinlífe geima kann, sem gloggvast er. Spámenn bæde og postular prúder, í prýde helldu sínum hag, ad una sier vid egta brúder, enn þócknaz þad gude í dag.

Sidgódur skal siáandinn vera, so sem skipar guds logmál, og manna med: hátta skipte hann á ad giora, haugum sínum, fyrer utan briál, svo athæfed, heutugleikum hæfa kunne; vid hvørn hann á í stad og stund, vel

ande haund og munne, og hegdan sinne á alla lund.

Trúlyndur í skape skýru, skal prestmadur og ged-hógvær, med liúfre lund, án haturs og ofundar sýru, uppá þad hann se þeim kær, sem þurfa hanns fuñd; þó gremiaz meige, ged skal stilla, um guds málefne er allt annad, siærmælinn þaú fara haunum illa, og fráleitt skick í sierhvorn stad.

Hentug er þad hátta prýde, (heimskra manna áreitkng, þó klappe kaldt) ad presturinn helldur lítid líde, enn laga kresie og stefne þíng, fyrer atvik allt. Med hógværd sæmer haunum ad gæta, hvorsu Christur og postular, helldur vildu þegia en þræta, þó tilreitter ófridar.

Hylle og spektar hæfer ad gæta, haunum sem fridar merked ber, á mannamót, gioraz má hann ei giarn ad þræta: gambür vekur upp óvilder, og haturs hót, hvar vid Paulus presta várar: prýded ydur med eindrægne, eins

einß og Christs epterfylgiarar, og andleger menn í fyrndinne.

Utbod má sá alldrei stunda, ne orlog nein, sem bodar frid og siálfs guds sátt. Líder hlacka lítt til funda, losa klerks, sem rýfur grid, med grellskap grátt. Bæn og þol eru betre veriur, [bibliugreiner slá af synd] enn hogg og grimmar orda eriur; ecke á þad vid saúdar kind.

Vidfelldenn og vingiarnlegann, vísdóms-gæter, sig skal tiá, vid sierhvorn mann, raúngódann og reidetregañ, enn rembelæte sier í frá, skal hrinda hann, aullu gódu æ víkiande; ómeinsamur graunnum sín, á hægra veginn hvad virdande: hegdan þvílík fagurt skýn.

Gestrisnin sem giorer ad hýsa, guds veslínga og framande menn, skal prýda prest; kærleiks verk so kunne aúglýsa: kemur á móte umbun tvenn, fyrer utan brest, hylle af gude, og heidur af maunnum. Helgur Abraham og Loth, og eckiur tvær med sóma

 saun-

saunnum, sagdrar raúsnar haufdu not.

Abata girnd og aúrasýke, andfúllt giører rykte prests, so kenner af keim, ef hann mútum eptersníker, og embætte sitt hefur til þess, ad safna seim, ærlegann kostnad í horfande. Er blódsugum skyldur sá, sem alla hlute er addragande, enn ecke tímer af nockru ad siá.

Fiár ágirnd er alls hins illa, undcrrót og sálar-þrá, sem bruggar bann, afguda-dýrkun, og eitrud villa; eingenn þiónar gude sá, sem aúrum ann: Isšchárioth því gálgann giste, hann gaf henne rúm í brióste sier. Margur þad fyrer mammon miste, sem meira og betra enn heimurinn er.

Hugsvinnur þarf hokla meidur, so hússtiórn kunne, og þeirrar rettu reglu og rád; þad er hanns bæde heill og heidur, hvorvetna þad takiz rett med dýrre dád: því hvornen má sá guds húss geima, og gagnaz audrum út í frá, sem sinnulaús er siálfur heima, og sitt gagn lætur fara sem má.

Bók-

Bókarunnar blíder hlióta, baurn sín hafa vel-augud, med virdta hátt: ment og hirtíng má ei þrióta, ad monnum hlýde, og ottiz gud í æsku brátt: því ecke er von þeir raund vid reise, ad retta sidu Christninnar, ef úngar þeirra í agaleýse, uppalaz til vansemdar.

Hirderinn skal med varehgd vaka, varga áhlaúpe forda hiord, þad frekast má; sem vaukumenniruer trúlega taka, í turnum uppe á borgum vord, so fiandmenn fá, eckert fære fólk ad ræna, þó feste líðurinn náturblund: andlegra er þad idkun bæna, um athugaleýsis hættustund.

Kenníngasamur verdur ad vera, og vel-lesenn í guds ritnínga greinum sá, sem prests nafn vill med prýde bera, og predika hreina útleggíng yfer efne há; so logmáls rettur og gudspialls gæde, greinelega framsetiz, og sundurlídud fridarins fræde, fákunnigum innrætiz.

 Ný-

Nýnæminn yfer naúdsyn retta, nióss-
nande um efne há í lærdóms list, fram-
ar enn skipar skylldan setta, skal sig ec-
ke prestur tiá: [því menn hafa mist, opt
þeir ed vildu eptergína, afhallds frægd-
um langt yfer hóf, vited bæde og vird-
íng sína] vogun sú er allt forgróf.

Vígder menn hafa vanda tvennañ,
[velgiord hvor sier sinnur stad enn hreck-
er hefnd] grandvarlega ad giora og ken-
na; af guds eidsvaurnum heimtiz þad,
ad heit seu efnd. Sálna þar fyrer
sorgarar heitum, sæmd, vidliggur ellegar
giaulld; dáens eigum vier drehra heitum,
drottne svara, ef vor eru vauld.

Vier af drottne erum vardmenn
setter, hann vill vier berum erende sín,
frañ óttalaúst, med áminníngum, allar
stietter, upvekiande; hótum pínu, med
hárre raúst. Hvor sier lætur dád ei
dvína, dóms ad þeyta lúdurinn, hann
hefur frelsad sálu sína, í synd þó fariz
vonder menn.

Andlegur drottens útsendare, í
hvors

hvörs munn ad gud hefur lagt sinn anda og ord, vere prúdur vandlætare, voldugra ecke hrædest grimd, ne Herodis mord: Jón Baptista óttadiz eige; ognade Nathan David fast. Betra er nú, enn dóms á dege, fyrer dygdaleyse ad þiggia last.

Þeim sem eingra idraz glæpa, apturhalld synda, og logmáls bann, skal lesaz þrátt; hinum sem med angre æpa, andlegur skal boda mann, guds blída sátt, med hógværum ástar anda, og athuga siálfur vanmátt sinn, hvornin hañ kann stødugur standa, og steype ei haunum freistínginn.

Innan kyrkiu er aull vor skyllda, í ordinantiu og bókum presta, skírlega skrád. Ef ceremoniur so eru uppfylldar, ad sannrar Christne eckert brestur, á reglu og rád, nægiz þá; þad nýter sanna: enn naúdsýn er ecke logmál sett. Sumthvad kallaz setníng manna, sú er ecke á einn veg rett.

K 5

Utan

Utan kyrkiu skal kyriare versa, kenna aullum heilnæm ráđ, og hreinann síđ: í hófum sýngia, biđia og blessa, bæta hópinn, stilla ónáđ, enn styrkia friđ; huggun gefa hrelldum sálum, hvort sinn þegar kemur á þíng, adstođ veita eckna málum, einnen stydia, fodurleýsíng.

Andlegur má ei þenare, Aarons reglu fráskoraz, so se til sanns, óhófle- gur ølsvelgiare; ofdryckian hún saúrgar fast, sidferde manns; hófslegt vín til heilsubótar, heldur Páll se leifelegt; enn býlfis ýstrgn lióta, innra manniñ þýnger frekt.

Valenkunnur ad vitund manna, vera skal sá sem kosenn er í kennemans stiett, rómsæld prýddur góđra granna, ad gagn-hrein breitne, so sem ber, se frá haunum friett: á þann veg, nær fyrer lídum lýsaz, loflegar dygder kennemañs, fyrer þá giof, af fólke prísaz, fader og drottenn himnaranns.

Reiknaz

Reiknaz má þad rettur prestur, sem reyniz so til daúda trúr, fyrer Herrans haund; og enn þó hittiz einhvor brestur, ordu mun hann ei drifeun úr, ef driúp er aund. J heime þó hann se hæddur og píndur, á himnum eru hanns laúnen stór, vegsamlega mun verda krýndur, í vænum dýrdar Jórsala chór.

Enn fúl-lyndur med fanta side, og fávíslegur, þó bere serk og bók í haund; þad er sannur leigulide, lítt ræktande helgeverk og húss forstaund: heima-fúll og dryckiu-dáre, deiler um greidslur oreigañs, hrapar sá med hempu og háre, í hróp og snauru spottarañs.

Veittu oss JEsu adstod aullum, og afplána vorn misgiorníng, vor meistarinn kær! hlífdu oss vid fáre og faullum, fyrer þíns anda upplýsíng, oss alla lær! so ad med alúd se þitt fædum, og fyrermynd gód seum þinne hiord. Til þrenníngar í hæstum hædum, hverse lof og þackargiord!

Kler-

Klerka-Titta kvæded heiter, kemur so til, ad laged er styrdt, enn loginn hord; merked og hitt, ad mæded veiter, mannsaúngs spil, af fiolnes urt, ad færa í giord. Virded mærd þó velei hlete, verduger hirdar, mier til góds. Amen. Fromer & Valere, aller í heillum Christi bloods!

NB. Fyrerutan þaú Errata, hvorra geted er vid þessa bæklings fyrstu edition, sem þryckt var í Kaúpenhafn Ao. 1734, eru í þessu upplage 40 prentvillur leidrettar. Vel má vera, ad enn nú hafe nockud kunnad ad yfersiáz, hvad góðfús lesare er vinsamlega umbedenn ad lagfæra og lesa í málid.

